# Tímarit

Þjóðræknisfélags
Islendinga

XIII. ár

WINNIPEG, MAN.







# Tímarit

## Þjóðræknisfélags Íslendinga

XIII. ÁRGANGUR

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni, að Íslendingar megi verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. Að styðja og styrkja íslenzka tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli, á svipaðan hátt og ýms þjóðernisfélög hér í álfu, svo sem "The United Scottish", "Sons of England" o. fl.

Hver einasti Íslendingur í þessu landi ætti að vera í félaginu. Ársgjald fyrir fullorðna er $1.00, unglinga frá 10 til 18 ára, 25 cent, börn innan 10 ára aldurs, 10 cent. Hver skilvís félagsmaður, er greiðir $1.00 árstillag, fær Tímaritið ókeypis.

Markmið félagsins er, að vinna að framförum og samheldni meðal Íslendinga hér í álfu, og að hjálpa til þess, að unglingum gefist kostur á að læra íslenzku, eftir því sem ástæður foreldranna kunna að leyfa.

Allar upplýsingar um félagið veitir "Félagsstjórnin" og má skrifa til hennar. Inngangseyrir og ársgjöld sendist "Fjármálaritara", en áskriftargjald að Tímaritinu "Skjalaverði".

Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi.

Winnipeg, Manitoba.

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins

**A. Heiðursfélagar**

Próf. Árni Pálsson
Reykjavík, Ísland

Einar H. Kvaran, rith.,
Reykjavík, Ísland

Jóhannes Jósefsson,
íþróttameistari,
Reykjavík, Ísland.

J. Magnús Bjarnason rith.
Elmros, Sask.

Þorb. Bjarnarson, skáld,
Pembina, No. Dak.

Próf. Halld. Hermannsson,
Ithaca, N. Y.

Vilhjálmur Stefánsson,
L.L.D.
New York, N. Y.

**B. Æfifélagar.**

Þorgils Þorgeirsson,
Winnipeg, Man.

**C. Ársfélagar**

**1. ÍSLAND.**

Mrs. Kristjana Eyjólfson
Aðalbj. Johnson
Reykjavík.
Páll Bjarnason,
Presthólar,
N.-Þingeyjarsýslu
Óskar Borg,
Reykjavík.
Séra Friðrik Hallgrímsson
Dómkirkjuprestur,
Reykjavík
Ólafur Helgason, læknir,
Reykjavík
Guðm. Th. Gíslason,
Verzlunarmaður
Reykjavík
Elízabet Þ. Benonýsdóttir,
Fosskoti,
V.-Húnavatnssýslu

**2. CANADA**

**Antler, Sask.**

Guðmundur Davíðsson
Bergvin Johnson

**Árborg, Man.**

Miss Halldóra Anderson
Björn Árnason
Guðjón Abrahamsson
Mrs. P. K. P. Bjarnason
P. K. P. Bjarnason
Dr. S. E. Björnsson
G. O. Einarsson
Gerða Christopherson
Luther A. Christopherson
Jón Gíslason
Tryggvi Ingaldson
Böðvar H. Jakobsson
Marteinn M. Jónasson
Finnbogi Finnbogason
S. S. Johnson
Eddy Johnson
K. Th. Johnson
B. J. Lífmann
Séra Sig. Ólafsson
Mrs. Sesselja Oddson
Sigurjón Sigurðsson
S. Arthur Sigurdson
Gunnar Sæmundsson
Stefán Stefánsson

**Árnes, Man.**

Helgi Elíasson
Guðm. Elíasson
Mrs. Guðhún Jónsson
Ísleifur Helgason
Mrs. Anna H. Helgason
Ólafur Jónasson
Jónas Ólafsson

**Ashern, Man.**

Sigurður Guðmundsson
Hermann Helgason
Sigurg. Pétursson

Guðmundur Sigurðsson
Halldór Thorkelson
O. D. Thorlacius

**Baldur, Man.**

Sigurður Antoníusson
Jónas Björnsson
Ottó Björnsson
C. Benediktsson
Kristján Ísfjörð
B. F. Ísberg
Thorfinnur Jóhannesson
Fred Jóelsson
Árni Jósephsson
Ingi Jóhannsson
Thorsteinn Swainson
Sigtryggur Sigvaldason
Einar Sigvaldason
Thor. Sigvaldason
John C. Skardal
J. K. Sigurðsson
Björgúlfur Sveinsson

**Belmont, Man.**

Jón Stefán Björnson

**Bifrost, Man.**

Hallur F. Thorvarðson

**Bowsman River**

Guðbjörg Danielson

**Brandon, Man.**

Guðríður Agnes Gunnlaugson

**Brown, Man.**

Gísli Árnason

**Calgary, Alta.**

Sigurður Sigurðsson

**Camp Morton, Man.**

Miss Margrét Sveinson

**Cloverdale, B. C.**

P. G. Ísdal

**Cypress River, Man.**

Ingólfur Árnason
Thorsteinn Holm
Jón Th. Johnson
M. J. Nordal
Magnús Nordal
Sigurður Pétursson

**Edfield, Sask.**

Mrs. Gróa Skagfjörð
Kristín Guðbjörg Skagfjörð

**Elfros, Sask.**

Helgi Sveinbjörnsson

**Eriksdale, Man.**

S. D. B. Stephanson

**Foam Lake, Sask.**

Mrs. Fanny Inge
Miss Málmfríður Inge

**Ebor, Man.**

Hinrik Johnson

**Framnes, Man.**

Bergur Guðmundsson
Magnús Gíslason
Thórður Helgason
Snæbjörn S. Johnson

Jón Snorri Johnson
Kristján Johnson
Kjartan Haraldur Johnson
Guðmundur Magnússon
Margrét G. Magnússon
Páll Stefánsson
Magnús Sigurðsson

**Geysir, Man.**

Þórður Anderson
Margrét Bjarnason
Einar Benjamínsson
Tímóteus Böðvarsson
Björn Bjarnason
Mrs. J. Böðvarsson
Tómas Björnsson
G. O. Gíslason
G. J. Magnússon
Vilhjálmur Oddsson
Gunnl. K. Oddsson
Vilhelm Pálsson
Mrs. Kristín Scaram
J. G. Skúlason
Jón Skúlason
Friðfinnur Sigurðsson

**Gimli, Man.**

Jakob Briem
Mrs. Jónína Christie
Stefán Eiríksson
Guðm. Fjeldsted
Jón Guðmundsson
Mrs. Ásdís Hinriksson
A. B. Olson

Elli Jóhannsson
Jón Magnússon
B. B. Olson
Mrs. J. P. Sólmundsson
Hjálmur Thorsteinsson
Guðm. Thorsteinsson

**Glenboro, Man.**

Páll Anderson
Kristján Gunnar Anderson
Mrs. Sigmar Bjarnason
Fr. Friðriksson
Theodor Jóhannsson
Alex Eldjárn Jónsson
John Helgason
Hans Johnson
G. S. Johnson
Stefán S. Johnson
G. Lambertsen
G. B. Mýrdal
P. G. Magnús
G. J. Oleson
T. Ólafsson
Árni J. Pálsson
J. E. Sigtryggsson
H. Sigtryggsson
Miss Ragnheiður J. Davidson

**Gull Lake, Sask.**

Vigfús Jónsson

**Hayland, Man.**

Hávarður Guðmundsson
Sigurður B. Helgason
Geirfinnur Pétursson

**Hecla, Man.**

Finnur Bjarnason

**Hnausa, Man.**

Hallgrímur Austmann
Frímann Frímannsson
Sigurlaug Helgason
H. Hildibrandsson
Bjarni Marteinsson
Gísli Sigmundsson
Kr. B. Snæfeld
Jón B. Snæfeld
Gestur Vidal
Sigurrós Vidal
S. J. Vidal

**Husavick, Man.**

W. B. Arason

**Innisfail, Alta.**

J. Björnsson

**Keewatin, Ont.**

Mrs. S. Björnsson
Mrs. Kristín Borgfjörð
Gugðjón Hermannsson
Th. Johnston
C. Magnússon
Sigurður Magnússon
Þorvarður Sveinsson
Mrs. B. Sveinsson
Stefán Sveinsson
Bjarni Sveinsson
Magnús Sigurðsson
Sigurður Sigurðsson
Mrs. M. Sigurðsson
J. Thorsteinsson
W. Thordarson

**Langruth, Man.**

Sigurður Finnbogason
Mrs. S. Finnbogason
Jón Halldórsson
Böðvar Johnson
Björn Kristjánsson
Mrs. Ingib. Kristjánsson
H. A. Thompson
Albert Thordarson
Bjarni Tómasson
John Thorsteinsson
Mrs. J. Thorsteinsson

**Lundar, Man.**

Björn Björnsson
Ágúst Eyjólfsson f
Mrs. Guðrún Eyjólfsson
Emil Eyjólfsson
Guðm. Ágúst Eyjólfsson
Gísli Grímsson
Eiríkur Hallsson
Jón Sigurðsson
Jóhannes Sigurðsson

**Markerville, Alta.**

Mrs. Helga Stephansson

**Markland, Man.**

Guðm. Sigurðsson

**Medicine Hat, Alta.**

E. J. Thorlaksson

**Moose Jaw, Sask.**

Mrs. Inga Thorlakson

**Mozart, Sask.**
Jón Arngrímsson
Jens Elíasson
A. G. Gíslason
Finnbogi Guðmundsson
Kristján Jósepsson
Th. S. Laxdal
Gunnar Líndal
Kristján Pétursson
J. S. Sigurðsson
Mrs. J. S. Sigurðsson
Magnús Sigurðsson
Marínó Sigurðsson
Magnús J. Skaftfeld
Paul Thomasson
Elías E. Vatnsdal

**Narrows, Man.**
Guðmundur Pálsson

**New Westminster, B. C.**
Loftur Goodman

**Oak Point, Man.**
Séra Guðm. Árnason
Andrés J. Skagfeld
Björn Sigurðsson

**Oak View, Man.**
Sigurður Sigfússon
Búi Thorlacius

**Piney, Man.**
S. S. Anderson
Mrs. S. S. Anderson
Stefán Árnason
Jón Davíðsson
E. E. Einarsson
Skapti Eyford
Mrs. E. E. Einarsson
Jón Jónsson
Jóhannes Jóhannesson
Ólína A. Johnson
Sigmar E. Johnson
Guðrún V. Johnson
Sigríður Johnson
Karl Friðrik Johnson
Sigurður J. Magnússon
M. Magnússon
Kristinn Norman
P. S. Pétursson
Thorsteinn Pétursson
Björn Stefánsson
J. Stephansson
B. G. Thorvaldson
Guðm. Thordarson
Albert Thorvaldson

**Poplar Park, Man.**
Einar Guttormsson
Óskar Jóhannsson
Sigurður Sigurðsson

**Powell River, B. C.**
Jón Sigurðsson

**Red Deer, Alta.**
Ófeigur Sigurðsson
Mrs. Kristín Sigurðsson

**Reykjavík, Man.**
Árni Björnsson
M. Erlendsson
G. Erlendsson
E. O. Erlendsson
Miss Margrét Erlendsson
O. Gíslason
Ingvar Gíslason
Mrs. Þóra Gíslason
T. Kjartansson
G. Ólafsson
O. W. Ólafsson
Ingim. Ólafsson
Tómas Ólafsson
A. Paulson
Mrs. Eyvör Sigurðsson
Óskar Sigurðsson

**Riverton, Man.**
Halldór Austmann
Mrs. G. M. K. Björnsson
Jóhannes Helgason
Skúli Hjörleifsson
Pétur Jónasson
Jón Sigvaldason
Friðgeir Sigurðsson
Mrs. F. Sigurðsson
Sigurbjörn Sigurðsson
Oddur Thorsteinsson
Sveinn Thorvaldson
Mrs. Kristín Thorvaldson

**Sanford, Man.**
Sveinbjörn Hjaltalín

**Selkirk, Man.**
A. Bjarnason

**Siglunes, Man.**
Ásm. M. Freeman
Guðm. Jónsson
Jón J. Jónsson

Páll Jónsson
**Silver Bay, Man.**
Jón Björnsson
Júlíus Gíslason
Jón Gíslason
Hallur Hallsson
Björn Jónasson
**Steep Rock, Man.**
Hjörtur Guðmundsson
Guðmundur Hjartarson
Einar Johnson
O. J. Olson
Ólafía Sigfússon
Jón Stefánsson
Pálmi Stefánsson
F. E. Snædal
Mrs. Ólavía Vigfússon
**Swan River, Man.**
Halldór Egilsson
**Saskatoon, Sask.**
Próf. T. Thorvaldson
**Tantallon, Sask.**
Tryggvi Thorsteinsson
**Toronto, Ont.**
Miss Rósa Hermannsson
**Vancouver, B. C.**
Ben. B. Bjarnason
Soffía Horner
Marínó Kolbeins
Sesselja Johnson
Mrs. Valgerður Jósefsson
**Vestfold, Man.**
Guðmundur Stefánsson
**Victoria, B. C.**
Mrs. Margrét Brynjólfson
Kristján Sivertz
**Víðir, Man.**
Mrs. Hildur Finnsson
Sigurður Finnsson
Gunnlaugur Holm
Hjörtur Jónasson
Ingigerður Jónasson
V. Jóhannesson
Ingvar Th. Kristjánsson
Guðrún Magnússon
Franklín Pétursson
Jón Sigurðsson
Helga Halldóra Sveinsson
Mrs. Guðrún E.S. Sveinson
Jón T. S. Sigurðsson
Guðrún J. Sigurðsson
**Vogar, Man.**
B. Eggertsson
Herðubreið Lestrarfélag
Jónas Kr. Jónasson
Árni G. Johnson
Guðm. Johnson
Ben. Rafnkelsson
**Wapah, Man.**
Fritz Erlendsson
Gísli Jónsson
Mrs. Margrét Johnson
J. R. Johnson
**Winnipeg, Man.**
Lára Árnason
Miss H. Bjarnason
Mrs. G. Borgfjörð
Mrs. Elízabet Brand
Dr. A. Blöndal
Guðm. E. Eyford
Stefán Eymundsson
Anna Eyford
Bjarni Finnsson
G. F. Gíslason
Dr. M. B. Halldórsson
Mrs. M. B. Halldórsson
Lúlli Holm
Mrs. P. N. Johnson
Aðalbjörn Jónasson
S. Jóhannsson
Stefán Johnson
John Christopherson
G. F. Jónasson
Jónas Jónasson
Jóhanna Jónasson
Mrs. Th. Ólafsson
Mrs. Stephan Stephanson
H. Methusalemsson
Dr. B. H. Olson
Mrs. G. H. Ólafsson
G. K. Ólafsson
Björn Pétursson
M. Pétursson
Jón Sigurðsson
J. J. Swanson
Árni S. Storm
Á. Sædal
Einar Stefánsson
Finnur Stefánsson









Kristján Stefánsson
Séra Jóh. P. Sólmundsson
F. Stephenson
Joseph Thomson

**Winnipeg Beach, Man.**
Jón Kernested

**Wynyard, Sask.**
Svanborg P. Jónasson
Jóhanna Melsted

**Yarbo, Sask**
Valdimar G. Guðnason

**3. BANDARÍKIN**

**Baltimore, Md.**
Dr. Stefán Einarsson

**Bantry, N. D.**
Helga Johnson

**Bellingham, Wash.**
Mrs. Jónína S. Bergmann

**Blaine, Wash.**
S. A. Anderson
Margrét J. Benedictsson
Þórir Björnsson
Séra Fr. A. Friðriksson
Mrs. F. A. Friðriksson
Ágúst Jasson
Gunnar Karvelsson
Mrs. Kristín F. Líndal
John Sigurðsson
Þorgeir Símonarson

**Cavalier, N. D.**
J. K. Einarsson

Einar G. Eiríksson
Björn Sveinsson

**Chicago, Ill.**
Mrs. Paul J. Halldórsson
Mrs. Dóróthy Pétursson
Jóhannes Sveinsson
C. H. Thordarson
Árni Helgason

**Dowagiac, Mich.**
Gunnar Árnason

**Duluth, Minn.**
Chris. Johnson
Mrs. Chris. Johnson

**Duxby, Minn.**
Jón Magnússon
J. J. Vatnsdal

**Edinburg, N. D.**
Hannes Björnsson
Margrét Guðmundsson
Benóný Stefánsson
K. G. Kristjánsson

**Fords, N. J.**
Eggert Eggertsson

**Garðar, N. D.**
Stgr. Ísfeld
Sigm. S. Laxdal
Gamalíel Thorleifsson
Jóhann Tómasson

**Gloucester, Mass.**
Einar Anderson
Jónas B. Johnson

**Grafton, N. D.**
Guðjón Ármann

**Grand Forks, N. D.**
Próf. Richard Beck
Dr. G. J. Gíslason

**Hallson, N. D.**
Árni J. Jóhannsson
Árni Magnússon

**Hallock, Minn.**
G. Goodman

**Hensel, N. D.**
Edward Bernhöft
Páll Thorlacius

**Ivanhoe, Minn.**
Bjarni Guðmundsson

**Los Angeles, Calif.**
Þorgils Ásmundsson

**Madison, W. V.**
Sigfús Ólafsson

**Milton, N. D.**
S. S. Grímsson

**Minneota, Minn.**
Mrs. María G. Árnason
Séra Gutt. Guttormsson

**Mountain, N. D.**
Jóhannes Anderson
Stefán J. Hallgrímsson
Þorgils Halldórsson
H. F. Hjaltalín
Chr. Indriðason
Gunnl. Johnson
K. N. Júlíus
Sigurður Melsted
Joseph J. Myres
Haraldur Ólafsson

Ingi J. Pálsson
S. F. Steinólfsson
S. Sigurðsson
Séra H. Sigmar
Thorl. Thorfinnsson

**National City, Cal.**
John S. Laxdal

**New York City, N. Y.**
Mrs. Thorstína Jackson Walters
Dr. Páll Vídalín Jamieson

**Pembina, N. D.**
Guðjón Bjarnason
Einar A. Einarsson
G. Gíslason
Mrs. Guðrún Ólafsdóttir Johnson
Miss Margrét Johnson
G. V. Leifur
Lena Oddsson
Miss Rósa Stevenson

**Portland, Oregon.**
Guðmundur Thorsteinsson

**Roseau, Minn.**
Grímur Ólafsson

**Rugby, N. D.**
Judge Guðm. Grímsson

**Santa Rosa, Calif.**
Jóhanna Melsted
Miss Valla Melsted

**Sacramento, Calif.**
E. M. Thorsteinsson

**Seattle, Wash.**
Ragnheiður Goodman
Séra A. E. Kristjánsson
Séra K. K. Ólafsson
Séra Carl J. Olson

**Spanish Fork, Utah.**
Miss Ellen Jamieson
Mrs. Ingibjörg Jamieson
J. E. Jamieson
William J. Johnson

**St. Paul, Minn.**
Gunnar B. Björnsson

**Sommerville, Mass.**
Mrs. Ingunn Allison

**Svold, N. D.**
Halldór Björnsson
Guðbr. Erlendsson

**Tacoma, Wash.**
Mrs. Elín Carpenter
E. S. Guðmundsson

**Zumbrota, Minn.**
M. A. Thorfinnsson

**Deildin Iðunn**
**Leslie, Sask.**
Árni Árnason
Rósmundur Árnason
Helgi Árnason
Stefán Anderson
Mrs. Stefán Anderson
H. D. Bjóla
Jón Björnsson
Skúli Björnsson
G. J. Björnsson
G. M. Benedictsson
Bjarni Davíðsson
Eiríkur Davíðsson
Kristján Gabrielsson
Gabríel Gabríelsson
Halldór Gíslason
John Goodman
Óskar Gíslason
Páll Guðmundsson
Þorsteinn Guðmundsson
Mrs. Th. Guðmundsson
Mrs. Th. S. Halldórsson
H. M. Halldórsson
Stefán Helgason
Hjálmar Helgason
Jón Jóhannsson
Hjálmar Jósepsson
Mrs. H. Jósepsson
Þóra Jósepsson
Baldvin Jónsson
Mrs. Rósa Jónsson
S. G. Kristjánsson
Páll Magnússon
F. G. Nordal
H. G. Nordal
Mrs. H. G. Nordal
L. B. Nordal
Mrs. L. B. Nordal
Kristján Ólafsson
Dr. J. P. Pálsson
W. H. Paulson
Albert Peterson
Mrs. Alb. Peterson
Jakob Peterson
Ási Pálsson
Guðm. Sigurbjörnsson
Sigurbjörg Sigurbjörnsson
Soffía Sigurbjörnsson
Gyða Sigurbjörnsson
Sigurbjörn Sigurbjörnsson
Mrs. S. Sigurbjörnsson
Haukur Sigurbjörnsson
Jóhann Sigurbjörnsson
Sigmar Sigurðsson
Mrs. H. Steinberg
Bjarni Þórarinsson
Harry Þorsteinsson
Þorsteinn Þorsteinsson
Þorvaldur Þorvaldsson

**Deildin Harpa**
**Winnipegosis, Man.**
Ingólfur Anderson
Helgi Anderson
Finnbogi Anderson
Ármann Björnsson
Vilhelm Björnsson
Jónas Brynjólfsson
Guðmundur Brown
Guðm. Egilsson
Mrs. G. Egilsson
Malvin Einarsson
Katrín Egilsson
Mrs. B. Eiríksson
Gunnar Frederickson
Mrs. G. Frederickson
Óskar Frederickson
Norma Frederickson

# TÍMARIT

## Þjóðræknisfélags Islendinga



ÞRETTÁNDI ÁRGANGUR, 1931

Ritstjóri: RÖGNVALDUR PÉTURSSON




WINNIPEG, MANITOBA
Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi
1931

# Efnisyfirlit

# Landnemaljóð.

Eftir Jakobínu Johnson.

Móðir ljóðs og lista
Lítur glæst í hilling
Voldugt land í vestri. —
Varpar fjarsýn gylling
Yfir lönd og leiðir
Leifs — og allra hinna,
Er hún orlof veitti
Óðul ný að vinna.

Móðir Leifs—og landnáms—
Lagði þeim í hjarta
Er of sævi sigldu:
Sæmdi lítt að kvarta,
Þó að napran næddi
Ný-bygð þeirra stundum. —
Þó að lengi lifðu
Ljóð frá kveðju fundum.

Móðir Kára' og Kjartans
Kendi þeim að sækja
Knátt, með list og leikni,
Landnám sitt, og rækja
Alt hvað gott og göfugt
Gamla stofninn prýddi; —
Alt hvað frjálst og fagurt
Framtíð þeirra hlýddi.

Móðir Ara og Egils
Eldinn bað þá geyma
Sagna- og ljóða-listar; —
Láta frá sér streyma
Áhuga og orku; —
Andlegt landnám vígja
Eldi erfða sinna
Óðalinu nýja!

Móðir strengja Stephans
Stolt í vestur lítur. —
Enginn lá á liði!
Langt mun áður slítur
Tengslin — blítt er binda
Börnin móður sinni.
Lengi og ljúft hún geymir
Landnemanna minni!

## Í Gullbrúðkaupi.

Fagurt mæla blöð,
Er á blíðum haustdegi
Berast hægt til hauðurs.
—Berast með blævi
Blíðra minninga
Sælu sumri frá.

Glóa þau í litum
Gulls og sólar,
Rósa og röðulskins.
— Þannig muna þau,
Og minnast hlýtt
Ljóma liðins tíma.

Mæla þau hljótt,
En hjartað nemur
Haustsins heilaga mál.

Um leið og vetur
Að völdum sezt,
Dreymir vor fyrir dyrum.

Hvar sem gulnað lauf
Frá litlum kvisti
Leysir leikandi blær,
Leynist í ljúfdvala
Laufblað nýtt,
Og bíður vermandi vors.

Lesum því kveðju
Laufblaðs á hausti
Sáttmála sumar-komu.
Sjáum í undri
Aftanroðans
Árroða annars dags.

**Jakobína Johnson.**



# Sigurður Nordal

Eftir dr. Stefán Einarsson.

### Inngangur.

Íslendingum austan hafs og vestan mun hafa þótt það tíðindum sæta, er það spurðist, að Harvard háskóli hefði kvatt prófessor Sigurð Nordal til að verða Charles Eliot Norton Professor of Poetry fyrir árið 1931-32.

Er þetta allveglegt embætti, stofnað til minningar um prófessor C. E. Norton í líkingu við hið fræga "Professorship of Poetry" í Oxford. Er talið að þessar stöður séu einstakar í sinni röð. Og hvað embættið við Harvard snertir, þá er það augsýnilega heiðursstaða í tvöföldum skilningi: háskólinn býður til sín árlega þeim mönnum einum, sem hann vill heiðra og sem hann um leið veit, að gera muni garðinn að frægari.

Er Nordal hinn fimti maður, sem haldið hefir embættið, hinir fjórir hafa verið: Gilbert Murray, Arthur MacLagan, H. W. Garrod og A. M. Hind — alt Englendingar. Og Nordal þannig, eigi aðeins hinn fyrsti Íslendingur, heldur fyrstur manna utan hins ensku mælandi heims, sem hlotnast þessi heiður, og má nokkuð af því marka álit það, er hann hefir unnið sér meðal erlendra, og þá einkum amerískra mentamanna.

En þótt Nordal sé eflaust jafngóðkunnur Íslendingum beggja megin hafs, þá þykir mér sem eigi mundi illa fallið, að **Tímarit Þjóðræknisfélagsins** geri félögum sínum við þetta tækifæri nánari grein fyrir manni þeim, er svo hátt ber merki þjóðar sinnar.

### I.

Þeir sem fylgst hafa með deilu þeirri, er þeir Einar H. Kvaran og Nordal hafa háð á ritvelli tímarita vorra, munu minnast þess, að deilan snerist meðal annars um lífsskoðanir tvær eldfornar, en þó ávalt nýjar, eins og dagur og nótt eru jafnný í dag og þau voru í árdaga. — Einhyggja og tvíhyggja nefnast þær.

Sem arftaki efnishyggjumanna og trúmanna í senn, tók Kvaran upp merki einhyggjunnar og varði það með sinni alkunnu ritlægni.

Aftur á móti tók Nordal svari hinnar fornu norrænu tvíhyggju. Þótt sú trú hafi átt færri formælendur meðal Íslendinga á síðari tímum, þá dugði hún allvel forfeðrum vorum, víkingunum, er dóu hlæjandi í vissunni um það, að þeir mundu síðar fylla flokk Einherja í úrslitabaráttu ills og góðs: Ragnarökum. Og enn byggir t. d. Helgi Pétursson heimspeki sína á þessari skoðun.

Hér skal engin tilraun gerð til að gera upp á milli þessara skoðana um hin hinstu rök, því það sannast á þeim, sem öðrum hlutum, að sínum augum lítur hver á silfrið. Það sem oss varðar hér, er

ekki það, hvort tvíhyggja Nordals sé rétt (um það sjá greinargerð hans sjálfs í Vöku I, bls. 166), heldur hitt, hvernig á því stendur, að hann lítur svo á heiminn. Svarið má lesa í Völuspár-útgáfu hans, bls. 135—36:

"Öll tvíhyggja er runnin af þeirri sjálfsathugun, að manninum finst hann vera eins og strengur, sem tvö öfl togast á um: efni og andi, ilt og gott, tregða og líf. Þessi tvö öfl eru í honum, sálarlíf hans hefir kviknað milli þeirra eins og neisti milli tveggja skauta. En þau eru líka fyrir utan hann, meira en hann: allur heimurinn er til orðinn fyrir baráttu þeirra og samstarf."

II.

Það er trúa mín að Nordal hafi lýst sjálfum sér rétt, þar sem hann segist vera "eins og strengur, sem tvö öfl togast á um", því hann hefir ekki einungis sagt oss þann sannleik hér berum orðum, heldur virðist mega rekja þessa tvískiftingu eðlis hans í æfi hans og verkum, ekki sízt hinum beztu.

Sjálfsagt hefir Nordal hlotið þessa tvöfeldni eðlis síns í vöggugjöf, þessir frumdrættir sálarinnar munu nær ávalt í blóðið bornir.

En þótt eðlisfar Nordals, eins og líklega allra manna, sé arfur, þá veldur hver á heldur þeim arfi, og enginn vafi er á því, að Nordal hefir ávaxtað sitt pund betur en flestir aðrir.

Lítt kann eg að segja frá draumum hans á barnsaldri, því skeiði æfinnar, sem mótar og festir frumdrætti persónuleikans. Hann er alinn upp í sveit, og ást hans á sveitinni og sveitamenningunni er eflaust bundin við fagrar minningar frá bernskuárunum. En þrátt fyrir indæli náttúrunnar og heilnæmi starfanna, sem sveitapilturinn á við að búa, þá stefnir hugurinn oft út og "upp yfir fjöllin háu". — Og þrettán ára gamall hefir hann lært speki Hávamála um mannvit mikið og orðstír, sem aldrei deyr.

Slíkir unglingar eru, sem betur fer, venjulega sendir í skóla. Og Nordal sýnir fljótt hvert erindi hann á þangað: hann er efstur í bekk en les utan skóla, þegar hann getur komið því við. Augsýnilega er kapp hans mikið og lítt skift á þessum árum.

En á stúdentsárunum fer tvíeðli hans fyrir alvöru að gera vart við sig. Eigi er mér kunnugt um hætti hans á þeim árum, en ef nokkuð má marka skáldskap hans, þá virðist hann ekki hafa fyrirlitið speki stökunnar, sem Lúter er eignuð:

"Hver sem aldrei elskar vín,
óð né fagran svanna, o. s. frv.

Í eftirmála að "Fornum ástum", sem höfundurinn segist raunar hafa verið að hugsa um að kalla "Gamlar syndir" — segir hann svo frá, að á þeim árum hafi hugurinn viljað "hneigjast meira en góðu hófi gegndi frá skyldustörfunum að skáldskap og draumórum."

**Skyldustörf** og **skáldskapur** — tvö öfl, sem heyja harða baráttu í persónunni. Annars vegar þurr vísindastarfsemi, þolinmæðisverk og sjálfsafneitun knúð fram af metnaði hans og viljanum til valds;

hinu megin leikur tilfinninga og hugar, svölun hamingjuþrárinnar, lífsnautnin.

En það er til marks um styrk Nordals, að þrátt fyrir hina miklu þenslu sálarinnar á þessum árum, fer hann ekki í mola, heldur ber hver grein sálarlífsins um sig þroskaða ávexti.

Hann gefur út Orkneyingasögu eftir öllum kúnstarinnar reglum og semur doktorsritgerð sína um Ólafs sögu helga. Mig minnir hann segði einhverntíma við mig, að allur vandinn við að semja slíka ritgerð væri fólginn í nægum tíma og nógri þolinmæði. En ritgerðin er meira en tími og þolinmæði samanlögð. Hún er Grettistak greindar og hugkvæmni, enda hratt hún úr stíflum fyrir heilu flóði af ritgerðum um konungasögurnar. Og menn lesi dóm B. M. Ólsen í Skírni (1915) til að sjá, hvert álit fræðimennirnir höfðu á hinum unga vísindamanni.

Þá er að líta á andstæðuna: skáldskapinn. Hann er ekki mikill að vöxtunum, það sem séð verður; enginn veit hvað lent hefir í pappírskörfunni, eða liggja kann í skrifborðsskúffum höfundar.

Tvö kvæði, tvær smásögur, og nokkur brot, — þetta var alt og sumt, sem tímaritin höfðu flutt mönnum áður en "Fornar ástir" komu út. Þar bættist mönnum tvær smásögur með nýabragði; aðra þeirra telur Árni Pálsson "eina hina meistaralegustu smásögu, sem samin hafi verið á vora tungu".

Langtum merkilegust eru þó ljóðabrotin í óbundnu máli, sem höfundur kallar "Hel". Merkilegust bæði að efni og formi. Með forminu markar höfundur nýtt spor í íslenzkum bókmentum, þótt fáir hafi enn gerst til þess að fylgja honum (Jón Thoroddsen yngri). Og þess er vert að minnast hér — af því að höfundur hefir á síðari árum mætt aðkasti nokkru frá sumum mönnum fyrir innilokunarstefnu í íslenzkum menningarmálum — að með þessari bók veitir hann straumum samtíma-menningar Evrópu inn í landið og hlaut þá ámæli sumra fyrir, ef trúa má Árna Pálssyni (í Skírni 1920):

"Eg hefi heyrt menn kasta því fram, að þessi bók væri óíslenzk. Sá dómur er ekki viturlegur, en hitt er satt, að bókin er óvenjuleg og nýstárleg. Hún er hugsuð og samin á suðurvegum, og yfir beztu köflum hennar leikur hreinn og svalandi andblær erlendrar menningar. En óíslenzk verður hún ekki fyrir það. Íslenzk menning og erlend eru af einni rót runnar og af erlendri menning höfum vér altaf auðgast og hljótum vér altaf að auðgast. . . Hér kemur utan úr heimi íslenzkur rithöfundur, sem hefir kunnað að læra og þess vegna kann frá mörgu að segja. Nálega hver setning í bók hans er mótuð af sjálfstæðri persónulegri hugsun og þar að auki rituð af varkárni og nákvæmri alúð við íslenzkuna. Engin sú hugsun, sem Íslendingur getur hugsað og sagt á móðurmáli sínu, er óíslenzkuleg."

Eg get ekki stilt mig um að benda á höfunda þá, er Nordal kveðst hafa átt sálufélag við meðan hann samdi Hel: "Ef eg á að telja þá höfunda, sem eg var hrifn-

astur af, þegar eg samdi Hel, þá eru það þeir Maeterlink, Renan (minn kærasti höfundur), Baudelaire; Bourget hefir haft meiri þýðingu fyrir mig sem kritiker og sálarfræðingur en skáld."

Það eru menn gamallar og nýrrar rómantíkar, sem hrífa hug hans. En sízt mun minna um vert efnið en formið, allra sízt fyrir þann sem skygnist eftir höfundi sjálfum á bak við línurnar.

"At digte — det er at holde
dommedag over sig selv,"

kvað Ibsen, og manni skjátlast naumast í því, að þetta hafi Nordal einmitt verið að gera, þegar hann orti Hel.

Álfur frá Vindhæli er snar þáttur af honum sjálfum, þáttur sem hann ann, en dæmir þó til að sökkva í haf gleymskunnar. Á degi dómsins fara þeir Álfur og gamli prófessorinn í mannjöfnuð, það er eintal sálarinnar, sem er klofin milli einlyndis og marglyndis, vísinda og listar. En það er yfirsjón Álfs, að hann vill gera líf sitt að glæsilegri list, án þess þó að vilja í nokkru leggja persónulega farsæld í sölurnar. Sjálfshyggja hans er ótakmörkuð, hún gerir hann á annan bóginn að glæsilegum víkingi og hættulegum Don Juan, en á hinn bóginn að flaki, sem berst fyrir straumi og vindi. Álfur frá Vindhæli er íslenzkur Per Gynt, eins og ljóslega kemur fram að leiðarlokum, er hann hugðist mundi finna sjálfan sig í minni fyrstu unnustunnar, Unu frá Vesturey.

Álfur er ekki frændmargur í íslenzkum bókmentum. Í svipinn man eg ekki eftir nema tveim mönnum, sem væri honum samboðnir félagar: Galdra-Loftur Jóhanns Sigurjónssonar og Vefarinn mikli frá Kasmir. Fleiri mundu frændur hans meðal Íslendinga sjálfra, ef vel væri eftir leitað.

Á meðan Nordal fékst við skáldritið Hel og skrifaði Álf frá Vindhæli frá sér, hafði hann og á prjónunum Hannesar Árnasonar fyrirlestra sína, þá er hann hélt í Reykjavík veturinn 1918—19, og nefndi Einlyndi og marglyndi.

Þessir fyrirlestrar eru ávöxtur af heimspekinámi og sjálfs athugun. Þektu sjálfan þig, er fyrsta boðorð heimspekingsins og því hefir Nordal dyggilega hlýtt. Skýring hans á þessum hugtökum lætur í eyrum sem sjálfs-æfisaga:

"Einlyndi og marglyndi er fyrst og fremst tvær andstæðar stefnur í sálarlífi hvers manns, þar sem öllum er eðlilegt á víxl að stefna að því að viða nýju efni í sálarlífið og koma á það kerfun og skipulagi, að vera á víxl opnir við margskonar áhrifum og beita athygli og orku að einu marki, að vera á víxl eins og hljóðfæri í hendi lífsins, eða ráða sjálfir leiknum. Sumir menn hallast þó fyrir eðlisfar og uppeldi svo greinilega á aðra sveifina, að orðin einlyndi og marglyndi má nota sem skapgerðarlýsingar. En mörgum verður örðugt að kjósa um auð og samræmi, fjölbreytni og orku, breidd og dýpt, viðkvæmni og framkvæmni. Þá verða einlyndi og marglyndi tvær sjálfráðar stefnur, sem gerast mönnum íhugunarefni og skapa vegamót í lífi þeirra og þroska."

Það liggur við að manni virðist

að þessir fyrirlestrar hafi skapað tímamót í lífi Nordals og þroska. Áður hafði hann verið vísindamaður eða skáld. Héðan af verður hann vísindamaður og skáld.

III.

Í öllum ritum Nordals, sem út hafa komið eftir Fornar ástir, er fræðimaðurinn og skáldið í fóstbræðralagi. Þó má ekki gleyma því, að eitt merkasta ritið: Snorri Sturluson, er samið að miklu leyti áður, þótt eigi kæmi það út í heild fyr en ári síðar. Mannlýsingar hans: Snorri Sturluson (í Skírni 1916) og Björn í Mörk (í Skírni 1919) sýna það, að hann kunni listina að láta þessar tvær andstæður haldast í hendur, áður en hann samdi Einlyndi og marglyndi. Munurinn er sá, að síðan hefir hann aldrei slept andstæðunum lausum, aldrei yfirgefið hinn gullna meðalveg. — Síðan eru verk hans hvorki hreinn skáldskapur né þurr vísindi, heldur vega þessar andstæður salt í verkum hans.

Renni maður augunum yfir þrjú merkustu rit hans frá þessu tímabili: Snorra Sturluson , Átrúnað Egils Skallagrímssonar og Völuspá, þá verður alstaðar vart tvíhyggju Nordals í skilningi hans á mönnum og verkum þeirra.

Hann lýsir Snorra sem skáldi og fræðimanni, manni, sem skiftur er milli marglyndis og einlyndis, þótt marglyndið sé sterkara. Snorri vill vera höfðingi, en hann mundi hafa orðið meiri höfðingi, ef marglyndið hefði ekki tvístrað honum og slævt eggjar viljans.

Íslenzka sagnaritun sér Nordal einnig undan þessu tvöfalda sjónarhorni: í henni eru vísindi og list andstæðurnar eins og í ritum Nordals sjálfs. Og uppruna íslenzkrar sagnaritunar leitar hann í þeirri tvískiftingu hugans, sem varð hinum fornu landnámsmönnum, er þeir yfirgáfu óðöl í Noregi til að flytja á útsker og eyjar Atlantshafsins. "Sú skifting hugans, sem er undirstaða allrar athugunar, einkum á sjálfum sér, var mynduð."

Þá er skilningur Nordals á Agli og öld hans eigi síður merkileg. Hann sér öldina í baráttu milli Þórs og Óðins, hins einlynda, einfalda en sterka bændafulltrúa, og hins marglynda, vígreifa og fjölkunnuga, en um leið ótrygga fulltrúa víkinga, konungmanna og skálda á hinn bóginn.

Milli þessara tveggja andstæðna: Þórs og Óðins, bændamenningar og höfðingjamenningar, einlyndis og marglyndis, er Egill skiftur, eins og Nordal sjálfur, eins og Íslendingum yfirleitt kippir í kynið til bóndans og víkingsins á Borg.

Þá er loks Völuspá, merkasta kvæði norrænt að fornu og nýju.

Það mun varla ofmælt, að Nordal hafi með skýringum sínum blásið í það kvæði meiri lífsanda, og fært það nær skilningi vor nútíðarmanna, en allir fræðimenn samanlagðir, sem um það hafa fjallað, og er þá mikið sagt, því fleiri menn hafa freistað að ráða rúnir Völuspár en nokkurs annars kvæðis á norræna tungu.

En Nordal hefir jafnvel gert meira. Hann hefir að nokkru leyti gert Völuspá að guðspjalli, lesið

út úr henni lífsskoðun þá, sem eigi aðeins fullnægði þreyttri sál höfundarins, heldur gæti líka orðið trúarstafur mörgum nútímamanni. Þessi lífsskoðun er **tvíhyggja**, og eru ummæli Nordals, þau er eg tilfærði í upphafi þessa máls, einmitt tekin úr ritgerðinni um Völuspá.

En hafi Nordal tekið Völuspá í guðspjallatölu, þá er það fyrir það, að hann hefir sjálfur sótt styrk í kvæðið. Kvaran benti á það í einhverri grein sinni, að Nordal hefði enn verið einhyggjumaður, er hann reit hugleiðinguna um bergkristallinn í Hel. Eftir viðureignina við Völuspá er hann það ekki lengur. Er gaman að sjá, hversu kvæðið geldur fósturlaunin.

IV.

En — ef svo er, að Nordal leggur sjálfan sig til í hvert það rit, er hann skýrir, er þá ekki hættulegt að reiða sig á þær skýringar, eru þær ekki fölsun?

Í strangasta skilningi mun svo vera. En það er að nokkru leyti óumflýjanleg fölsun. Enginn maður skilur kvæði nákvæmlega sömu skilningu og skáldið sem orti það; og hefir Nordal skemtilega skýrt það sjónarmið í greininni **Viljinn og verkið**. Þar segir hann frá kvæði, sem honum virtist leirburður einn, en manninum, sem orti, andagift. Á hinn bóginn getur svo farið, að verk, sem höfundi þótti lítils um vert sjálfum, verði öðrum mönnum að tjáningu djúprar speki. Dæmi þess er ef til vill saga Guðmundar Friðjónssonar: **Gamla heyið**. Hefir sú saga hlotið mjög einróma lof, og mun Guðmund eigi hafa órað fyrir því, er hann setti hana saman, því sjálfur telur hann sig hafa ritað betri sögur.

En bezta trygging fyrir réttum og frjósömum skilningi fornra og nýrra verka er sú, að þau sé skýrð af manni, er á í sál sinni strengi, er hljómað geta í samræmi við hátt verksins. Því fleiri strengir, sem eru á hörpu skýrandans, því meiri líkur eru til þess, að einhver þeirra hljómi í hátt við verkið, með öðrum orðum: hann skilji það. Því hlýtur marglyndi að vera kostur á hverjum skýranda og tilfinningalíf hans má ekki vera fyrir borð borið af þurru viti.

En þetta hefir einmitt löngum viljað brenna við um norrænufræðinga vora. Þeir hafa fyrst og fremst verið skarpvitrir skynsemisþjarkar. Og Nordal veit vel, hvað hann gerir, þegar hann slítur félagsskap við þessa menn.

Hann deilir á þá fyrst og fremst fyrir að staðnæmast við undirstöðuatriði skýringarinnar, án þess að byggja nokkuð ofan á þau, án þess að spyrja um insta kjarna verkanna. Hann deilir á það, að þeir létu sér aldrei til hugar koma, að leita að andanum, vildu láta aðra um það að vera heimspekingar og prédikarar.

"Í þessum skoðunarhætti," segir Nordal, "er bæði skammsýni og hugleysi. Svo framarlega sem menn fara að fást við andlega hluti, eiga þeir ekki að nema staðar fyr en að andanum er komið. Svo mikill ljóður sem það er á fræðimanni, að leggja andríki sjálfs sín inn í annara rit, þá er hitt engu síður á-

byrgðarhluti, að eigna verkum löngu liðinna stórmenna sitt eigið andleysi, og reyna að hneppa þá í stakk, sem sniðinn er við dverga hæfi."

Rétt á litið er Nordal fulltrúi nýrrar stefnu, bæði í íslenzkum bókmentum og norrænni ritskýringu. Þessi stefna er **nýja rómantíkin**, sem leysir efnishyggjuna af hólmi. Því segir hann: "Það var mikið mein að eiga ekki um miðja 19. öld menn, sem gátu blásið meira af lífsanda rómantíska skólans í hinar nýju vísindaaðferðir, menn á borð við Rénan og Gaston Paris, sem áttu kvöldbjarmann af rómantíkinni yfir æsku sinni, en dagsbirtu raunvísindanna yfir þroskaaldri. Þeir menn, sem áttu þetta tvent, hafa verið mestir ritskýrendur, því til þess þarf ekki einungis gáfur og lærdóm, heldur og ást á efninu og virðingu fyrir því. Annars er hætt við að fornrit verði ekki annað en bitbein og skotspænir fyrir skarpvitra heimsku skýrandans."

Þó að þessi dæmi séu valin úr inngangi Völuspár, mátti eins vel taka part af innganginum að bók hans um Snorra, þar segir meðal annars svo: "En eitt er það, sem eg hvorki vil né get afsakað: eg hefi af veikum mætti og eftir því sem efnið og þroski minn leyfðu, reynt að skrifa þessa bók um lifandi rit fyrir lifandi menn. . . . . Þó að andríki geti oft verið smekklaust og óþolandi, þá er eitthvað bogið við, þegar það er orðið smánaryrði meðal vísindamanna, er fást við algerlega óhagnýta fræðigrein, svo að hið andlega gildi hennar eitt gefur henni tilverurétt. Norræn ritskýring siglir nú með lík í lestinni, af því að hún hefir gleymt að spyrja sífelt, hvað væri **rannsóknar virði** og hvernig hún ætti að gera rannsóknina lifandi þátt í menningu og þjóðlífi."

Báðum þessum spurningum hefir Nordal svarað með verkum sínum, Og hylli sú, er þau hafa hlotið, eigi aðeins meðal íslenzks almennings, heldur og meðal vísindamanna, svo vítt sem norræn fræði fara, sýnir að hann hefir verið á réttri leið. "Undir þessu merki skaltu sigra."

V.

Eg vona að tvískiftingin í skapi Nordals sé mönnum ljós eftir undanfarandi athugasemdir um hann og verk hans. Þar með er manninum þó hvergi nærri lýst til fullnustu; einkum vantar það á að benda mönnum á metnað hans og glæsimensku.

Nordal segir um Finn Jónsson, að hann hafi ekki "verið að gaufa út í útjöðrum fræða sinna, ekki sýnt tilfyndni sína í tómum smámunum, eins og komið getur fyrir mikla hæfileikamenn. Hann hafi jafnan ráðist þar á garðinn, sem hann var hæstur og þörfin mest að vinna." Sannleikurinn er sá, að Finnur hefir lítt farið í manngreinarálit, er hann valdi sér viðfangsefni. En metnaður Nordals kemur meðal annars fram í því, að hann velur sér þau efni, sem hæst bera, eins og Snorri, Egill, Grímur Thomsen og Völuspá. Nordal er yndi að fást við þessa and-

ans höfðingja, af því að hann er í ætt við þá. Sá Snorri, sem hann leiðir fram á sjónarsviðið, er á marga lund eins og samborin bróðir hans sjálfs. Hann er t. d. ekki einungis skáld og fræðimaður, heldur líka höfðingi og heimsmaður. Að vísu hefir Nordal aldrei lagt sig eftir pólitískum frama eins og Snorri gerði, enda er öldin önnur nú en í tíð Sturlunga. Eða hver efast um það að Nordal hafi viljað vera höfðingi í andans heimi, mikils metinn háskólakennari og frægur rithöfundur? Því hefir honum hlotið að vera ervitt um val, þegar Norðmenn buðu honum kennarastól í íslenzkum fræðum við háskólann í Osló. Þar buðust honum mörg hlunnindi, sem hann varð að fara á mis við í fásinni Reykjavíkur: meiri bókakostur, glæsilegra félagslíf meðal ágætra samverkamanna. Þó reyndist sú rammari taugin, er rekka dregur föðurtúna til, og Nordal fór hvergi.

Eins og hjá Snorra, kemur glæsimenska Nordals mjög fram í ritum hans. Næstum hver lína er fáguð af smekk höfðingjans. En þessi smekkur er framar öllu einkendur með einu orði: hófsemi. Og þetta mark er eigi aðeins á ritum hans og fyrirlestrum, heldur og í framgöngu hans og viðræðum. Viðkvæmninni, hreifninu eða fjörinu, er undir kann að búa, er aldrei slept úr skefjum; aldrei minnist eg þess að hafa heyrt hann "láta vaða á súðum". En úr þessum ham hlédrægninnar kemur hann manni að óvörum, með óvæntar leiftrandi samlíkingar og sjónarmið, er gefa sýn inn í nýja heima.

Það eru þessar óvæntu útsýnir, sem hann opnar huganum, er gera hann að ágætum fyrirlesara, og skýrir hylli þá, er hann hefir hlotið á fyrirlestraferðum heima og erlendis.

VI.

En hafi metnaður Nordals komið fram í efnisvali hans, meðan hann var sjálfráður valsins, þá hefir hann orðið að leggja þenna metnað á hilluna á síðari árum vegna knýandi skyldustarfa stöðu sinnar. Íslenzk bókmentasaga eftir 1400 er að vísu óplægður akur og gæti því freistað starfsmanns, sem lítt hirti í hvað hann gengi, bara að hann hefði eitthvað handa á milli. En kosið mundi Nordal sér annað betra en að yrkja þau hrjóstur öll, ef hann hefði mátt ráða. En nauðsyn krafði að hér yrði komið upp yfirliti fyrir nemendur, og að þessu hefir Nordal unnið síðan Völuspá kom út. Munu fyrirlestrar þessir nú langt fram komnir, þótt lítt hafi Nordal birt úr þessum rannsóknum sínum. Má til þess nefna nokkrar athugasemdir um siðaskiftatímabilið og skemtilega grein um Tyrkja-Guddu, en langmerkilegust er þó greinin um **Samhengið í íslenzkum bókmentum**, er prentuð var sem inngangur að Lestrarbókinni 1924.

Þessa grein, sem hann hélt sem fyrirlestur í Noregi, og þýdd hefir verið á önnur tungumál, ber auðvitað fyrst og fremst að skoða sem tilraun til aðferðar við rannsókn á bókmentasögunni eftir 1400, er hann átti fyrir höndum, frumdrætti er átt geta fyrir sér að breytast nokkuð við sjálfa rannsóknina.

En greinin er miklu meira en frumdrættir tómir. Í henni fer Nordal eldi anda síns um þetta hrjóstruga land, svo jafnvel steinarnir virðast fá líf og lit. Undir höndum hans rís saga íslenzkra bókmenta, sem barátta milli innlendrar erfðar og útlendra áhrifa, þar sem útlendu áhrifin verða þó ávalt að lúta í lægra haldi fyrir íhaldi hins þjóðlega máls og menta.

Nordal finnur þetta íhald í dróttkvæðunum og rímunum, sem verða stofninn að hinum þjóðlegu bókmentum. Jafnvel fáránlegustu verk þessa stíls fá gildi sitt sem stíflur og straumbrjótar gegn flóði erlendu áhrifanna, er reis hæst á siðaskiftaöldinni.

Niðurstaðan af þessu verður sú, að Nordal, sem sjálfur hafði veitt nýjum erlendum straumi inn í bókmentirnar, verður nú að nokkru leyti fulltrúi dróttkvæðanna og rímnanna, hins þjóðlega stofns, gegn öfgum hinna útlendu áhrifa: "Vér megum ekki við því, að rithöfundar vorir svigni eins og strá fyrir hverjum goluþyt bókmentatízku, er um Norðurálfuna blæs, og verk þeirra verði svo framtíðinni ónýt".

VII.

Vér sjáum hér að saga Nordals virðist bregða ljósi yfir menningarstrauma nútímans. Hitt er þó jafnlíklegt, að Nordal hafi skoðað söguna við ljós samtíðar-menningar, og það er víst, að íslenzk nútíðarmenning og þroski hennar hefir um langan aldur legið honum á hjarta. Ein af fyrstu greinum hans Þýðingar (í Skírni 1919) er einmitt herhvöt til Íslendinga að fljóta ekki sofandi að feigðarósi í þeim málum. En þótt sú grein sé 5 árum eldri en inngangur Lestrarbókarinnar, þá verður varla séð að verulegs stefnumunar gæti, nema svo sé að áherzlan á varðveizlu þjóðararfsnis sé nokkru þyngri í Lestrarbókinni en í Skírnisgreininni.

Rætur þeirrar greinar standa djúpt í áhyggju þeirri um hag þjóðarinnar, er Nordal ber í brjósti — eins og allir góðir Íslendingar hljóta að bera — á utanvistarárum sínum. Hvað eftir annað hafði hann spurt sjálfan sig: Hvað höfum vér Íslendingar þess, er réttlætt geti kröfu vora til þegnréttar í heimi þjóðanna? Í hverju getum vér orðið leiðtogar, hvar er landnám séreðlis vors? Og svarið var. Alþýðumenning vor er einstök í sinni röð. Þar er pundið, sem oss er falið til ávöxtunar.

En á hverju hefir þessi alþýðumenning lifað? Á bókum? Hvað er þá líklegra en að bezta ráðið til þess að efla hana sé bækur og aftur bækur. Vér höfum tekið upp barnaskólafyrirkomulag að dæmi annara þjóða, sem ekki eiga alþýðumenning á borð við vora. Væri ekki betra að fylgja bendingum innlendrar reynslu, og leggja alt kapp á að fá alþýðu fleiri og betri bækur í hendur en hún hefir átt kost á? Er ekki bezta ráðið að þýða erlend úrvalsrit og fræðibækur og láta ríkið gefa þær út?

Þótt yfirleitt væri góður rómur ger að þessari grein Nordals, þá fékk hún honum líka andstæðinga meðal manna er litu svo á, að hér kendi rómantísks oftrausts á forn-

um aðferðum í fræðslumálum, auk þess sem bæði bókaútgefendur og barnaskólakennarar þóttust missa spón úr aski sínum, kæmi hún til framkvæmda. Samt mun greinin hafa ýtt undir stofnun unglingaskólanna á síðari árum, með hinn ágæta Laugaskóla Þingeyinga í broddi fylkingar, og mun enginn efast um þrifnað þann, er alþýðu stendur af skólum þessum. Ennfremur er stofnun Menningarsjóðs mjög í anda greinarinnar.

Af öðrum greinum um menningarmál má einkum nefna **Samlagning** (í Vöku 1927). Er sú grein hvöt til Íslendinga að vera á verði gegn öfgum hinnar vestrænu siðmenningar, gegn "ofríki" talnanna og ofbeldi tækninnar. Í raun og veru er greinin snjöll varnarræða fyrir andann gegn efninu, og munu allir geta fallist á mál höfundar þar, þótt þá greini á við hann í einstökum atriðum.

Á síðustu árum hefir hin þjóðlega stefna Nordals í menningarmálum sætt allmiklum andmælum af hálfu manna, er þykir hún um of einangra þjóðina frá erlendum áhrifum. En eins og ljóst er af framanskráðu, þá eru þessar aðfinslur lítt maklegar í garð Nordals sjálfs. Aftur á móti eru þær nauðsynleg olnbogaskot til margra fylgismanna Nordals, sem gleymt hafa nauðsyn útlendu áhrifanna fyrir blindri dýrkun þess, sem þeir halda að sé þjóðlegt. Fer hér, sem ávalt, að menn skiftast í flokka um sjónarmiðin, og er ekkert við því að segja, meðan hvorugir snúa á aðra, því að þá heldur skipið réttri stefnu.

En meðan Íslendingar hirða nokkuð um þjóðerni sitt, þá hlýtur sú stefna að vera mörkuð í hinum hófsömu orðum Nordals: "að standa djúpum rótum í fornum jarðvegi, en vera þó umburðarlynd og næm á nýjar hugsjónir." (Völu-Steinn). Á þessari leið hefir Nordal sjálfur sigrað.

**Yfirlit yfir æfi og verk.**

Sigurður Nordal er fæddur 14. sept. 1886 á Eyjólfsstöðum í Vatnsdal. Foreldrar: Jóhannes Nordal og Jósefína Sigurðardóttir. Ólst upp á sama bæ hjá Jónasi bónda Guðmundssyni og Steinunni Sigurðardóttur konu hans. Settist í fyrsta bekk lærða skólans í Reykjavík árið 1900; útskrifaðist þaðan stúdent vorið 1906 með 1. einkunn. Var skráður í stúdentatölu við Hafnarháskóla haustið 1906, las norræna málfræði. Próf í forspjallsvísindum árið eftir með ágætis einkunn; meistaraprófi í norrænum fræðum í febrúar 1912. Styrkþegi af sjóði Árna Magnússonar 1913—16; af sjóði Hannesar Árnasonar 1914—18. Dr. Phil. við Hafnarháskóla 1914. Las sálarfræði og bókmentasögu í Oxford 1917—18. Prófessor í íslenzkri málfræði og bókmentasögu við Háskóla Íslands frá 1. október 1918. Flytur þá um veturinn 20 Hannesar Árnasonar fyrirlestra í Rvík. Rektor Háskólans 1922—23. Boðið nýstofnað embætti í íslenzkum fræðum við háskólann í Osló 1923, boðinu hafnað fyrir tilmæli Alþingis.

Sumarið 1925 í fyrirlestraferð um Norðurlönd, haustmánuðina í

Oslo, þar sem hann flutti flokk fyrirlestra. Auk þess oftar í utanferðum til fræði-iðkana. Forseti Vísindafélags Íslendinga 1921—23; formaður alþýðufræðslunefndar Stúdentafélagsins 1926—29; formaður mentaskólaráðs frá 1928; í stjórn sjóðs Jóns Sigurðssonar; í fulltrúaráði bókmentafélags; í stjórn Þjóðvinafélags, o. s. frv. Kjörinn félagi í hinu Kgl. norska vísindafélagi í Þrándheimi 1927, í Vísinda-akademíinu í Osló 1930. Charles Eliot Norton Professor of Poetry við Harvard háskóla 1931—32.

Kvæntur 1922 Ólöfu Jónsdóttur Jenssonar háyfirdómara. Eiga þau tvo drengi á lífi, en mistu efnilega dóttur 1927.

## Rit.

### I.
**Bækur, frumsamdar eða útgefnar af S. N.**

**Om Olaf den helliges saga.** — En kritisk undersögelse. København 1914 (doktorsritgerð).

**Orkneyingasaga.** — Udgivet for Samfund til udgivelse af gammel nordisk litteratur. København 1913—16.

**Fornar ástir.** — Reykjavík 1919.

**Snorri Sturluson.** — Reykjavík 1920.

**Völuspá.** — Gefin út með skýringum. — Fylgir Árbók Háskóla Íslands 1922—23. Reykjavík 1923. (Dönsk þýðing: Vöiuspá. Völvens Spaadom. Udgivet og tolket af S. N. Fra Islandsk ved Hans Albrechtsen. København 1927.)

**Íslenzk lestrarbók 1400—1900.** — Reykjavík 1924. (Inngangurinn þýddur á norsku af Adolf Försund: Samanhengen i islandsk bokheim, (1927?).

**Sókrates.** — Varnarræða Sókratesar, Kriton og Faidon (Brot), eftir Platon. Reykjavík 1924. Bókasafn Þjóðvinafélagsins. Þýdd að mestu eftir Stgr. Thorst., formáli og skýringar eftir S. N.)

**Ijslandsche literatuur in de 19e en 20e eeuw** Kort Overzicht (1926).

**Utsikt over Islands litteratur i det 19. og 20. aarhundre.** — Oversat av Fredrik Paasche. Oslo 1927. (Islandske smaaskrifter Nr. 3. Utgitt av den norske forening Norden ved Fredrik Paasche). (Ritgerðin er upphaflega skrifuð á íslenzku 1924.)

**Lögsögumannskjör á Alþingi 930.** — Sýnt á Þingvöllum 1930 (Eftir S. N. og Ólaf Lárusson. Reykjavík 1930.

**Codex Wormianus.** — MS. 242 Folio in the Arnamagnean Collection of the University library of Copenhagen. With an introduction by Sigurdur Nordal. Copenhagen 1931. (=Corpus Codicum Islandicorum Medii Aevi II.. Útgefendur Levin og Munkegaard.)

### II.
**Ritgerðir, smásögur, kvæði o. fl.**

1909 Tvö kvæði. Eimr. 15:130—31.
1910 Ferðaminningar frá Saxlandi. Eimr. 16:35—40.
Síðasta fullið (saga). Eimr. 16: 138—50.
Kolufell (saga). Skírnir 84:251—260.
Islandsk litteratur. For Folkeoplysning 10:1—5.
1913 Om Orkneyingasaga. Aarböger for nordisk Oldkyndighed og Historie. III. Række 3:31—50.
1915 Baugabrot I. Iðunn 1:228—30, 1916. (Árgangar Iðunnar hefjast ekki um áramót.)
1916 Baugabrot II—IV. Iðunn 2:104—15.
Til Jóns Jacobssonar (kvæði). Óðinn 12:14.
1917 Íslenzk sálarfrræði. Eimr. 23:73-82.
Guðjón Baldvinsson. Réttur 2:51-71.
1918 Brot. Iðunn4:172—78.
1919 Björn M. Olsen. Skírnir 93:1—8.
Þýðingar. Skírnir 93:40—63.
Björn úr Mörk. Skírnir 93:141—52.
1921 Matthías við Dettifoss. Eimr. 27: 1—10.
1922 Þýðingar. Andvari 47:158—166.
1923 Grímur Thomsen. Eimr. 29:1—16.
Laugardagur og mánudagur. Iðunn 8:32—39.
Völusteinn. Iðunn 8:161—78 (1924).
Þula. Iðunn 8:241—44 (1924)
1924 Háskólinn. Andvari 49:65—86
André Courmont. Eimr. 30:6—12.
María guðsmóðir. Eimr. 30:129—33.
Átrúnaður Egils Skallagrímssonar. Skírnir 98:145—65.
1925 Um ritdóma. Eimr. 31:56—69.
Íslenzk Yoga. Iðunn 9:113—22.
Undir straumhvörf. Skírnir 99:131—94.
1926 Loftferð yfir Eystrasalt. Eimr. 32: 138—44.
Heilindi. Iðunn 10:26—49.
Nokkrar athugasemdir um bókmentir siðskiftaaldar. Skírnir 100:172—94.
Málfrelsi. Lesbók Morgunblaðsins 5. sept. 1—5.
1927 Norsk vísindastofnun. Andvari 52: 101—110.
Tyrkja-Gudda. Skírnir 101:116—31.
Rafstöðvar á sveitabæjum. Vaka 1: 35—40.

Sú tillaga var feld. Liðurinn síðan borinn upp og samþyktur.

4. liður samþyktur.

5. liður samþyktur.

Nefndarálitið í heild sinni samþykt.

Fundi var þá frestað til kl. 2 e. h.

* * *

Fundur var settur kl. 2. e. h. Fundargerningur lesin upp og samþyktur.

Var þá gengið til embættismannakosninga.

Stungið var upp á eftirfarandi mönnum til forsetastarfs: Ragnar E. Kvaran, J. J. Bíldfell, Jónas A. Sigurðssoní Guðmundur Árnason, Rögnv. Pétursson.

Þrír síðasttaldir báðust undan því að vera í kjöri. Var þá kosið um hina tvo fyrstu og hlaut J. J. Bíldfell kosninguna.

Fyrir varaforseta var stungið upp á R. E. Kvaran og var hann kosinn í einu hljóði.

Fyrir skrifara var stungið upp á Rögnvaldi Pétursson og var hann kosinn í einu hljóði.

Páll S. Pálsson kosinn í einu hljóði varaskrifari.

Ó. S. Thorgeirsson kosinn í einu hljóði fjármálaritari.

B. Dalman kosinn í einu hljóði varafjármálaritari, er Stefán Einarsson hafði beðist undan kosningu.

Árni Eggertsson kosinn í einu hljóði féhirðir.

Walter Jóhannsson kosinn í einu hljóði skjalavörður er ýmsir höfðu afsakað sig.

Carl Thorlaksson og Grettir Jóhannsson voru tveir í kjöri sem yfirskoðunarmenn og hlaut Carl Thorláksson kosninguna.

Að afstaðinni kosningu embættismanna flutti Á. P. Jóhannsson eftirfarandi.

### Athugasemdir fjármálanefndar við nefndarálitið í Sýningarmálinu.

Í sambandi við síðasta lið, sem ólokið er að afgreiða, þá lítur fjármálanefndin þann veg á, að ekki hafi komið nein fjárhagsleg styrkbeiðni frá milliþinganefndinni, er kosin var í fyrra, og varla kunni að vera um neinn verulegan kostnað að ræða á þessu ári. Starfið mun að miklu leyti felast í bréfaskriftum og öflun upplýsinga um, á hvern hátt Íslendingar muni geta tekið þátt í hinni fyrirhuguðu sýningu, er haldin verður í Chicago 1933.

Fyrir þá ástæðu leggur nefndin til að þessi liður sé látinn niður falla.

Á. P. Jóhannsson
Ingvar Gíslason
B. Theódór Sigurðsson
G. S. Friðriksson

Rögnvaldur Pétursson gerði fyrirspurn um, hvort nefndinni væri með þessu synjað um styrk, ef hún þyrfti hans með. Taldi hann varhugavert að banna stjórnarnefndinni að leggja til styrk, ef hans gerðist þörf, sem væri næsta líklegt að á daginn mundi koma.

Á. P. J. taldi ekki til þess mundi koma að til fjárs mundi þurfa að grípa. Alt starf nefndarinnar væri þannig vaxið. Hins vegar væri freistandi að eyða fé, ef því væri beinlínis haldið að nefndinni.

Mrs. R. Davíðsson sagði að nefndin hefði ekki komið saman þar til nú fyrir mjög skömmu, sökum fjarveru formanns hennar, en þótti sýnt að án fjárs fengi hún ekki mikið gert í framtíðinni.

Dr. M. B. Halldórsson taldi sjálfsagt, að nefndinni væri látið í té fé eftir þörfum. Mrs. P. S. Pálsson kvað nefndina enn ekki hafa beðið um neinn styrk og með því að nefndin á næsta ári gæti naumast meira gert en afla sér upplýsinga, þá væru líkindi til þess að hún þyrfti ekki á nema litlum peningum að halda.

Tillaga fjármálanefndar var þá borin upp og samþykt með 28 atkvæðum gegn 24. Nefndar álit sýningarnefndar var því næst borið upp með áorðinni breytingu og samþykt.

Séra Rögnvaldur Pétursson bað þá um leyfi að mega leggja fyrir þingið mál, sem flokka mætti undir "Ný Mál" en væri þó í rauninni gamalt og hefir Félagið haft það með höndum áður. Tilmæli hefði sér borist frá einni utanbæjar deildinni, þess efnis að Félagið

á þessu ári veitti, úr sjóði eða á annan hátt, einhverja upphæð, er þinginu kæmi saman um, í viðurkenningarskyni fyrir vel unnið starf, sagnaskáldinu góðkunna J. Magnús Bjarnasyni í Elfros. Áleit hann að heppilegast myndi vera, að félagið tæki mál þetta á dagskrá, að það þar með gerði tilraun til að mynda fastan sjóð, stofnsjóð (Foundation), er bæri eitthvert ákveðið nafn, er skýrði tilgang hans, og vöxtum þessa sjóðs yrði svo varið árlega til verðlauna veitingar Ísl. rithöfundum vestan hafs, en þó þar með skilið að fyrsti veitingahafi yrði skáldið góðkunna er áður hefði verið nefnt. Sjóðinn gæti Félagið stofnað með því að setja til síðu einhverja ákveðna upphæð til þess að byrja með, og leita svo gjafa í hann frá ári til árs, meðal þeirrra er styðja vildi þesskonar fyrirtæki. Óskaði hann eftir að þingið tæki þetta til meðferðar. Fór hann þar næst nokkrum orðum um ritverk J. Magnúsar Bjarnasonar og benti á í hvaða þakklætis skuld Íslendingar stæðu við hann.

Að máli þessu var gerður hinn bezti rómur. Með því töluðu séra Guðm. Árnason, Jóh. Eiríksson, Ásm. P. Jóhannsson, er sagðist vera málinu meðmæltur og ef hægt væri að mynda sjóð á viðeigandi hátt skyldi hann nú þegar gefa til hans $25.00. Halldór Gíslason spurði þá flutingsmann hvaða nafn hann hefði hugsað sér fyrir sjóðnum. R. Pétursson svaraði, að sjóðurinn mætti heita "Bókmentasjóður Stephans G. Stephanssonar, til styrktar íslenzkum rithöfundum", að öðru leyti hefði hann ekki um nafnið hugsað. Ásgeir Bjarnason mælti með sjóðstofnun, sömuleiðis Mrs. Byron er kvaðst fús að leggja fram $5.00. J. K. Jónasson mælti með málinu en áleit heppilegast að ekkert nafn væri við sjóðinn tengt að svostöddu. Jónas Jónasson talaði með málinu og hét sinni aðstoð. Séra J. P. Sólmundsson mælti með en kvaðst ekki fella sig við orðalag flutningsmanns að öllu leyti. Jón Jónatansson talaði um nafnið, vildi að sjóðurinn yrði nefndur "Viðurkenningarsjóður". Árni Eggertsson sagðist álíta heppilegast að fá þetta mál 3 manna nefnd er hefði það með höndum að minsta kosti fyrsta árið. Tillaga Ásg. Bjarnason og Halldór Gíslason, að kosin sé þriggja manna nefnd, er færi með málið til næsta þings. Jón J. Bildfell benti á að fyrst væri að ganga frá bendingu flutningsmanns um að stofna sjóð, lagði til að þingið aðhiltist þá bendingu og ákvæði að stofna slíkan sjóð, og setti fyrir honum reglugerð um hversu með hann skyldi farið. samþykt. Ásm. P. Jóhannsson gerði þá breytingartillögu við þá er fram var komin að vísa málinu að svo komnu til stjórnarnefndar. Stutt af Guðj. Friðriksson og samþ. Ó. S. Thorgeirsson vakti máls á því, hvort ekki væri viðeigandi að vekja athygli Íslands stjórnar á máli þessu. Á. Eggertsson gat þess að hann hefði minst á þetta mál í sumar, og því verið vel tekið.

Fyrir hönd fræðslumálanefndar flutti J. J. Bildfell eftirfarandi álit:

"Það blandast víst engum hugur um það, að fræðslumálin eru eitt af aðalverkefnum Þjóðræknisfélagsins. Á sama tíma og þau eru hið göfugasta hugsjónarmið hjá félaginu sjálfu og öllum öðrum, sem að því styðja á einn eða annan hátt, að vekja hugi og hjörtu eldri og yngri Vestur-Íslendinga til þess sem fegurst er og bezt í fari íslenzku þjóðarinnar.

Verkefni þau sem Þjóðræknisfélagið, eða deildir þess hafa sérstaklega haft með höndum á árinu, er íslenzku-kensla og framsögn á íslenzku af börnum og unglingum. Hvoru tveggja þetta hefir tekist ágætlega vel á árinu og eiga allir hlutaðeigendur þakkir skilið fyrir áhuga sinn í þeim efnum og vel unnið verk.

Í sambandi við fræðslumálin vill nefndin benda á, að fræðslumálunum, utan Þjóðræknisfélagsins hefir verið sint allrækilega í sömu átt og Þjóðræknisfélagið er að vinna og starfa. Má þar til nefna söngkenslu Brynjólfs Þorlákssonar sem er óendanlega mikils virði fyrir Þjóðræknisstarfið, því það er ef til vill ekkert, sem nær jafn vel til sálar unglinganna, eins og töfraregn söngtónanna .

Í öðru lagi er það Choral Society,

sem mikla stund hefir lagt á að æfa íslenzk sönglög og breiða töfra mátt söngsins út á meðal fólks.

Og í þriðja lagi ,er það Jóns Bjarnasonar skóli sem í 17 ár hefir verið að vinna að því að kenna íslenzka tungu og innræta íslenzkum nemendum þekkingu á og virðingu fyrir íslenzkum bókmentum og bókvísi. Alt þetta starf miðar í sömu áttina og Þjóðræknisfélagið vill stefna. Ber oss því að viðurkenna það, meta og þakka. Ennfremur hefir hér nokkur rækt verið lögð á sjónleika, sem einnig ber að minnast með þakklæti á. Á séra Ragnar E. Kvaran víst mestan þátt í því starfi.

Með alt þetta í huga, leyfir nefndin sér að leggja til:

1. Að íslenzkri kenslu verði haldið áfram og aukin ef hægt er, á þessu ári.

2. Að framsögn unglinga á íslenzku sé haldið áfram af alefli, og að Þjóðræknisfélagið styðji það starf, á sama hátt og verið hefir.

3. Að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins, og aðrir félagsmenn og félagskonur séu beðin að aðstoða hr. Brynjólf Þorláksson við væntanlegar söngsamkomur, sem hann hugsar til að halda i vor, og að þingið veiti hr. Þorláksson $25.00 úr félagssjóði sem ofurlítinn þakklætisvott fyrir starf sitt.

4. Að þingið viðurkenni starf Choral Society með því að veita því $25.00 úr sjóði.

5. Að þingið sýni viðurkenningu sína fyrir starf það sem Jóns Bjarnasonar skóli og starfsmenn hans hafa verið að vinna með því að veita skólanum $100.00 úr félagssjóði.

J .J. Bíldfell
Fred Swanson
B. E. Johnson.

Miss H. Kristjánsson lagði til og J. Jónatansson studdi, að nefndarálitið væri rætt lið fyrir lið. Samþykt.

Fyrsti, annar og þriðji liður samþyktir. Er kom að 4. lið, spurði Mrs. Byron hvort unt væri að samþykkja hann án þess að vísa honum fyrst til fjárhagsnefndar.

W. J. Jóhannsson áleit ekki viðeigandi að minnast ekki karlakórsins íslenzka, ef annað samskonar félag væri styrkt með fjárframlögum. Gerði hann þá breytingartillögu við liðinn, að Choral Society, Male Voice Choir og Choral Society of Selkirk yrði skrifað viðurkenningarbréf, en fjárveitingin væri látin falla niður. Tillagan var studd af Árna Eggertsson og samþykt.

Miss H. Kristjánsson taldi fjárveitinguna í 5. lið of háa. Eftir nokkrar umræður var liðurinn samþyktur.

Fundi var nú frestað til kl. 8. síðdegis og ákveðið að þingslit færu fram á eftir skemtisamkomu þeirri, sem fram átti að fara um kvöldið.

Fundur var settur kl. 8. síðdegis og hófst með því að J. J. Bíldfell sýndi íslenzkar myndir og útskýrði, en þess á milli hlýddu menn á nýjustu íslenzkar hljómplötur .

Að skemtun þessari lokinni var fundargerningur lesinn upp og samþyktur.

Rögnvaldur Pétursson gerði tillögu um að þjóðræknisfélagið sýndi herra bókaverði Árna Pálssyni í Reykjavík þá sæmd að gera hann að heiðursfélaga. Mælti hann nokkur orð um ferð Árna Pálssonar og starf hans vor á meðal. Á. P. Jóhansson studdi tillöguna og var hún samþykt með því að þingheimur reis úr sætum sínum.

B. E. Johnson lagði til að þingið vottaði fráfarandi forseta, Jónasi A. Sigurðsson þakklæti sitt fyrir vel unnið starf. Tillagan var studd af Árna Eggertsson og samþykt með því að þingheimur reis úr sætum.

Forseti þakkaði með nokkrum völdum orðum.

Fundargerð lesin og samþykt og sleit hinn nýkjörni forseti J. J. Bíldfell, þinginu með stuttri ræðu.

J. J. BÍLDFELL, forseti.

R. E. KVARAN, ritari.

# Nellie

Eftir E. S. Guðmundsson.

Annað eða þriðja árið, sem við dvöldum í Hallson-bygðinni í No.-Dakota, eignuðumst við tík, sem kölluð var Nellie. Hún var heldur lítil og grannvaxin og mórauð á lit. Var hún mesti hlaupa-hundur, sem eg hefi þekt. Ekki var hún neinn gripahundur. Aftur mátti vel nota hana við sauðfé. Hún var mesta þægðar-grey, og framúrskarandi þrifin. Aldrei hefi eg þekt þýðlyndari hund. Þó stökk hún ekki upp um mann, eins og flestir hundar vilja gera, er þeir láta fögnsinn í ljósi við mann. Í stað þess þrýsti hún hausnum að lærinu á manni. Sæti maður, lagði hún hausinn í kjöltu manns og flíraðist við mann.

Gaman hafði Nellie að fara með manni, væri eitthvað farið að heiman; sýndist það lítinn mismun gera, hvert farið var; hún virtist jafnvel hafa gaman af að fara með, þegar kýrnar voru sóttar. Og hafði eg gaman af henni og kúnum. Ef maður sigaði henni á kýrnar, þá hljóp hún fram fyrir þær, og stóð geltandi rétt við hausinn á þeim. Ekki fanst kusum vert að hreyfa sig. Þær bara hertu sig meira að bíta. Þegar þeim fór að leiðast þetta gjamm, gerðu þær sig illilegar, ýttu fram hausnum í áttina til Nellie og blésu hart og snögt. — Skauzt Nellie þá svolítið til hliðar, en kom brátt aftur og hélt áfram þessu meiningarlausa gjammi.

Nellie var enginn gripahundur, og allra hunda meinlausust. Og þó hafði hún gaman af að veiða vilt dýr. En aldrei glettist hún við tamin dýr. Veiðiþráin sýndist vera svo langríkust í eðli hennar. Oft veiddi hún smádýr og jafnvel kanínur. Aldrei læddist hún að neinni skepnu. Aldrei sýndi hún neinu dýri grimd, sem hún veiddi. Hefi eg aldrei séð neinn hund fara eins hreinlega að því, að drepa það, sem hann veiddi, eins og hún gerði. Það hefði mátt gera úr henni hinn frægasta veiðihund, hefði hún verið undir handleiðslu manns, sem borið hefði gott skyn á þá hluti.

Einu sinni var það, að stjúpi minn og móðir mín voru tvö ein inni. Kofadyrnar voru opnar. Sjá þau hvar Nellie kemur inn, og er mjög kát. Hleypur hún til stjúpa míns og lætur vinalega við hann og dillar rófunni. Svo hleypur hún aftur fram í dyrnar, en kemur strax til baka og hagar sér eins. Endurtekur hún þetta nokkrum sinnum. Þóttist stjúpi minn þá vita, að hún vildi sér eitthvað, og gekk út í dyrnar. Sá hann þá, að annars vegar við dyrnar lá dauð kanína. Hafði Nellie veitt hana og borið heim. Réttir hún nú stjúpa mínum kanínuna. Var hún þá fjarska kát og ánægð með sjálfa sig.

Þegar við komum fyrst í Hallson-bygðina, var þar dálítið af ónumdu landi. Var landspilda þessi

að mestu leyti skógi vaxin, og eins og flest þau lönd, sem nýbygð voru. Hélzt við í skógi þessum ósköpin öll af kanínum. Voru þær fremur gæfar, enda varla orðið mannsins varar til þessa. Af okkur er það að segja, að við vorum fátæk. Voru efnin svo lítil, að ekki var hægt að kaupa sér skepnu til frálags. Var því lítið um kjöt á borðum hjá okkur. Þá var það, að maður bauð stjúpa mínum byssu með vægum hjörum. Var því boði tekið þakksamlega. Varð nú sú breyting á hjá okkur, að meira varð um kjöt á borðum en annari fæðu. Fórum við nú út í skóga á veiðar, eins oft og ástæður leyfðu Altaf veiddum við eitthvað. Gaman höfðum við bræður af þessum veiðiförum. Töldum við saman, hvað mikið hvor fyrir sig veiddi, og eins hvað mkið allir til samans (stjúpi minn, bróðir minn og eg) veiddum yfir veturinn. Taldist okkur svo til, að við allir til samans veiddum 1000 kanínur yfir veturinn, og það tvo vetur í röð. Var það ekki svo lítill búbætir. Vanalega byrjuðum við að veiða í nóvembermánuði, og hættum í byrjun marzmánaðar.

Fyrst þegar Nellie sá okkur taka byssuna, lifnaði heldur en ekki yfir henni. Vildi hún ólm fá að fara með okkur. Þorðum við ekki að láta hana fara, svo hún var lokuð inni. Ekki höfðum við samt farið langt að heiman, er Nellie kom til okkar. Hafði hún einhvern veginn sloppið út. Var hún þá ekki lengi að finna spor okkar og ná okkur. Var nú rétt að því komið, að við snerum aftur, því við héldum að hún mundi fæla allar skepnur frá okkur. Þó varð ekki af því. Stjúpi minn sagði Nellie að hún yrði að ganga á eftir okkur, og mætti ekki láta heyra til sín. Var hún viljug að gera það, ef hún fékk að ganga á eftir þeim, sem á byssunni hélt. Gengum við vanalega svo, að sá sem á byssunni hélt, gekk á undan, en ekki samhliða. Var Nellie ekki fáanleg til að ganga annarsstaðar en á milli okkar. Ekki hreyfði hún sig eða lét til sín heyra, þó hún sæi einhverja skepnu. Eins stóð hún kyr meðan byssunni var miðað, en eins fljótt og hún sá reykinn koma út úr byssuhlaupinu, þaut hún af stað að sækja veiðina. Rétti hún veiðina þeim, sem skaut, og tók sitt pláss fyrir aftan skyttuna. Vanalega þökkuðum við henni fyrir að færa okkur veiðina, og varð hún glöð yfir því. Þó kom það fyrir, að svo mikill veiðihugur var í okkur bræðrum, að við gleymdum að þakka henni fyrir það, sem hún færði okkur. Varð hún þá daprari í bragði og lagði næst veiðina við fætur okkar. Merkilegt var það, að aldrei gelti hún, er hún sótti það, sem við höfðum skotið. Ekki hljóp hún heldur eftir þeim skepnum, er höfðu orðið okkar varar, og hlupu áður en við komumst í færi við þær. Eg man heldur aldrei eftir að hún gelti, er hún hljóp eftir dýrum, sem hún veiddi sjálf. Er það óvanalegt af hundi. Ekki leið á löngu áður en við urðum þess varir, að Nellie sá betur en við. Tók hún þá upp á því að reka snoppuna í kálfann á þeim, sem á byssunni hélt. Reisti hún þá höfuðið hátt og horfði í þá átt, sem hún sá

eitthvað. Náðum við þannig margri skepnunni fyrir skarpskygni hennar.

Einu sinni vorum við Nellie tvö ein á ferð með byssuna. Man eg, að við komum inn í þykkan pílviðarrunn. Ýtti þá Nellie við mér og benti mér á kanínu. Þegar hún benti manni á eitthvað að veiða, stóð hún all-vígaleg og horfði í þá átt, sem dýrið var. Sperti hún þá upp eyrun og hafði ginið hálfopið og hægri framfótinn á lofti. Svona beið hún þess að skotið riði af. Í þetta sinn hljóp hún ekki, er eg skaut, eins og hún var vön, heldur ýtti við mér aftur og benti í aðra átt. Sat þar önnur kanína. Þegar síðara skotið reið af, hljóp hún og sótti báðar kanínurnar. Þakkaði eg henni fyrir og hældi fyrir dugnað og skarpskygni. Kætti það hana mikið. Aldrei beit Nellie þau dýr, sem við skutum. Hélt hún á þeim lauslega, en þó svo, að þau drógust ekki með jörðinni.

Árið 1895 fluttum við frá Dakota til Minnesota. Námum við land í hinni svonefndu Roseaubygð (Roseau County). Liggur hérað þetta meðfram landamerkjalínu þeirri, sem skilur Bandaríkin og Canada. Nær norðaustur horn þessa stóra héraðs að The Lake of the Woods. Ekki gátum við flutt okkur með járnbraut. Það voru 75 mílur til járnbrautar, þaðan sem við settumst að. Var því flutt á hestavögnum það, sem við höfðum meðferðis, en kvikfénaður var rekinn. Nokkuð margir Íslendingar settust að í héraði þessu um líkt leyti og við, en munu nú flestir futtir burtu þaðan. Roseaubygðin var hér um bil beint austur frá því, sem við áttum heima í Dakota. Vegalengdin milli bygðanna var um 130 mílur. Því miður var ekki hægt að fara beina leið til þessa nýja heimkynnis okkar. Stórt vatnsfall var á leiðinni, sem ekki var hægt að komast yfir með skepnurnar, nema á brú. Var það hin svonefnda Rauðá, sem aðskilur ríkin Dakota og Minnesota. Voru þá fáar brýr á vatnsfalli þessu. Sú brúin sem næst var, var Canadamegin hjá smábæ, sem Emerson heitir. Urðum við því að fara þangað. var það um 50—60 mílna krókur. Rétt sunnan við landamærin, í norðaustur horni Norður Dakota, stendur bærinn Pembina. Þangað urðum við að fara, og fá þar leyfi til að fara norður fyrir með fénað okkar. Fékst leyfið, en gekk í dálitlu stappi með það. Ekki vorum við ein á ferð. Voru fjórar eða fimm fjölskyldur í hópnum. Allar til samans höfðu fjölskyldur þessar töluvert af gripum, og allir höfðu nokkrar kindur. Voru því tveir rekstrarnir, nautgripir í öðrum, en sauðfé í hinum. Mikið gagn höfðum við af Nellie við rekstur sauðfjárins. Hún var svo fótfrá. Tók hún því af okkur margan snúninginn.

Þegar til Pembina kom, urðum við þar veðurtept í þrjá daga. — Rigndi þá svo mikið, að alt sýndist ætla á flot. Fast við Pembinabæinn að sunnanverðu var þá mikið sléttuflæmi. Bandaríkin höfðu haft þar heræfingastöðvar, sem nú voru lagðar niður. Höfðum við góðan bithaga fyrir fénaðinn á þessum sléttum. Var okkur sagt,

að á sléttunum væri einhver strjálingur af sléttuhérum. Þeir eru hver fótfráustu dýr. Einn daginn, sem við vorum á sléttum þessum, sáum við héra. Hann var töluvert langt frá okkur er við sáum hann fyrst. Ekki leið á löngu áður en Nellie kom auga á hérann. Þaut hún á eftir honum. Hlupu þau nú bæði alt hvað af tók. Man eg ekki eftir að hafa séð fótfrárri dýr um dagana, en Nellie og hérann. Töluvert löng stund leið, þar til hún náði héranum. Færði hún okkur veiðina. Ervitt átti hún með að bera hérann svo hún drægi hann ekki. Bæði var hann stór og þungur, en hún móð eftir hlaupin. Þótti öllum, er sáu, þetta vera afreksverk.

Þegar til Roseau-bygðarinnar kom, var þar fátt til veiða. Eitthvað var þó þar af smádýrum, en varla að kanína sæist. Aftur var þar heilmikið af óþefjum. Þegar Nellie sá þá fyrstu, þaut hún á eftir henni strax. Óþefjan er ekki hlaupadýr, en getur samt varið sig fyrir öðrum dýrum, þótt hvorki geri hún það með klóm eða kjafti. Geta þær sprautað frá sér vökva, sem svo mikill óþefur er að, að fæst dýr geta staðist lyktina. Fékk Nellie að kenna á þessu varnarmeðali óþefjunnar. Man eg, að þá heyrði eg Nellie fyrst og síðast kveinka sér. Ekki leið þó á löngu þangað til hún stökk á óþefjuna aftur. Varð hún þá alt í einu það, sem við héldum að hún ætti ekki til í eðli sínu: grimmur hundur. Urraði hún og beit óþokkadýrið. En þegar dýrið var dautt, vildi hún hvorki færa okkur það eða snerta. Ellefu óþefjur vissum við til að hún dræpi; en bara sú fyrsta hafði tækifæri til að koma fyrir sig vörn.

Eftir að fyrsta árið var liðið, sáum við ekki þessi óþverradýr á landi okkar, né í nágrenninu. Þökkuðum við Nellie það.

Við áttum Nellie lengi, og ólum upp undan henni tvo hunda. Voru þeir líkir henni í vaxtarlagi og eins á lit. Þeir hlutu báðir sama nafn: Brown.



Guðm. Guðmundsson
Guðjón Guðmundsson
Kári Goodman
Elísabet Goodman
Ásgeir Halldórsson
Finnbogi Hjálmarsson
Leó Hjálmarsson
Guðm. Hannesson
G. E. Hjálmarsson
Snorri Jónasson
Ólafur Jóhannesson
Friðrik H. Johnson
Fríða Johnson
Sæunn Johnson
Hugh Johnson
Málmfríður Johnson
Villi Johnson
Thorsteinn Johnson
John Johnson
Ottó Kristjánsson
Guðrún Magnússon
Sigurður Magnússon
Elín Ögmundsson
Engilráð Ögmundsson
Kjartan Ögmundsson
Ögmundur Ögmundsson
Sesselja K. Ögmundsson
Fjóla Ögmundsson
Lily Ögmundsson
Hermann H. Ögmundsson
Bjarni Ögmundsson
Þorsteinn Oliver
Sigurður Oliver
Mrs. Guðrún Oliver
Kristín Sigrún Oliver
Vilborg May Oliver
Guðlaugur Óskar Oliver
Andrés Rasmusson
Kristín Schaldemose
John Stevenson
Vígbaldur Stevenson
Fritzner S. Stevenson
Guðrún H. Stevenson
Alexander Thorarinsson

**Deildin Fjallkonan**

**Wynyard, Sask.**

Dr. Kristján Austmann
Hallgr. Axdal
Mrs. Hallgr. Laxdal
H. J. Bardal
Þórhallur Bardal
Mrs. Th. Bardal
S. A. Bergmann
S. S. Bergmann
Gísli Benediktsson
Friðrik Bjarnason
Páll Bjarnason
Ásgeir I. Blöndal
J .G. Christjánson
Árni G. Eggertsson
Mrs. C. F. Friðriksson
Gunnlaugur Gíslason
Mrs. Gunnl. Gíslason
Carl Grímsson
Valdimar Gíslason
Mrs. Arnþrúður Goodman

Sigtryggur Goodman
Guðm. Goodman
Gunnar Guðmundsson
Friðrik Guðmundsson
A. S. Hall
Ólafur Hall
Óli J. Halldórsson
Þorbergur Halldórsson
Mrs. Rósa Hjartarson
Gunnar Jóhannsson
Jón Jóhannsson
Mrs. Dómhildur Johnson
Mrs. S. B. Johnson
Valdimar Johnson
Mrs. Valdim. Johnson
Halldór Johnson
Raguel Johnson
Mrs. H. B. Johnson
Jón Jónsson frá Mýri
Sveinn Jóhannsson
Miss Þóra Johnson
Kristján Kristjánsson
Mrs. Ragnh. Kristjánsson
Hakon Kristjánsson
Ingibjörg Lindal
Ingi Magnússon
Stefán S. Magnússon
Ingi Sigurjónsson
Óli Stefánsson
Bjarni Sturlaugsson
Árni Sigurðsson
Mrs. Fríða Sigurðsson
Mrs. H. Sigurjónsson
Sigurjón Sveinsson
Tóbías Tóbíasson
Guðm. Thorarinsson
Grímur Westdal
Mrs. P. Westdal

**Deildin Ísland,**

**Brown, Man.**

Sigurjón Bergvinsson
J. S. Gillis
Ragnar Gillis
Óskar Gillis
Árni Gillis
Þorsteinn Gillis
Ólafía R. Gillis
Oddný Gíslason
T. J. Gíslason
Mrs. T. J. Gíslason
J. M. Gíslason
Mrs. J. M. Gíslason
Andy Gíslason
Mis Ránka Gillis
Árni R. Gillis
B. Hallgrímsson
Lenard Helgason
Jóhannes H. Húnfjörð
Jón Húnfjörð
Miss Þórunn Helgason
Benedikt Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Ólöf J. Johnson
Marsilía Johnson
Herbert Johnson
H. I. Johnson

Mrs. H. I. Johnson
Sigga I. Johnson
Guðbjörg I. Johnson
J .B. Johnson
Ingib. Kristjánsson
Sæunn Kristjánsson
Árni Ólafsson
Gísli Ólafsson
Halldór Ólafsson
I. M. Ólafsson
O. A. Ólafsson
Sigurður Ólafsson
Óli Ólafsson
Ragnar Ólafsson
Ránka A. Ólafsson
Sigga V. Ólafsson
Mrs. Halldór Ólafsson
Albert S. Ólafsson
Vilhjálmur Ólafsson
T. O. Sigurðsson
Mrs. T. O. Sigurðsson
Árni Thomasson
Hannes Thomasson
Jónatan Thomasson
Thomas Thomasson
Thorsteinn Thomasson
Jóhann Thomasson

**Deildin Brúin**

**Selkirk, Man.**

Elízabeth Austdal
Friðfinnur Austdal
Bjarni Árnason
Mrs. Margrét Anderson
Kristín Bjarnadóttir
Auðunn Bjarnason
Ásgeir Bjarnason
Einar Bjarnason
Þórður Bjarnason
Kristín Benson
Kristján Bessason
G. E. Dalman
Bjarni Dalman
Norman Dalman
Hávarður Elíasson
Bárður Einarsson
E. B. Einarsson
Guðfinna Einarsson
Jón Sólvin Einarsson
Ásta Eiríksson
Ingigerður Eiríksson
Björg Erlingsson
Hallur Gilsson
Guðrún Guðmundsson
Miss. G. Guðmundsson
Þorv. Guðmundsson
Guðm. Guðmundsson
John J. Henry
Ingveldur Henry
Jón Þ. C. Henry
Jóhann G. Henry
E. J. Hinriksson
Rúnólfur Hinriksson
Vilhj. Indriðason
Guðrún Indriðason
Sigurður Indriðason
Aurora Ísfeld

Guðjón I. Ísfeld
Guðrún Ísfeld
Sigurður G. Ísfeld
Trausti Ísfeld
Þóra Jakobsson
Halldóra Jóhannesson
Hjörtur Jóhannesson
Gestur Jóhannsson
Mrs. G. Jóhannsson
Jóhann Jóhannsson
[illegible]gi Jóhannsson
G. F. Jóhannsson
Guðrún Johnson
Klemens Jónasson
Hinrik Jónsson
Mrs. Valgerður Jónsson
Sigurbjörn Jónsson
Margrét Karvelsson
Páll Magnússon
Jón Mayland
Einar Magnússon
Cecilia Mýrdal
Mrs. Gróa Martin
Mrs. Rakel Maxon
Ingibjörg Oddsson
Arndís Ólafsson
Jón Ólafsson
Kristín Ólafsson
Ólafur Ólafsson
Gestur R. Olson
Sigríður Olson
Ólafur Ólafsson
Alice Pálsson
Ingibjörg Pálsson
Kristján Pálsson
Kristján Pálsson, Jr.
Jóhann Pétursson
Margrét Pálsson
Pálína Pálsson
Jóhann Sigfússon
B. Theo. Sigurðsson
Guðbergur Sigurðsson
Elín Guðrún Sigurðsson
Ingibjörg Sigurðsson
Jóh. O. S. Sigurðsson
Jón Ó. S. Sigurðsson
Séra Jónas A. Sigurðsson
Jón Sigurðsson
Mrs. Stefanía Sigurðsson
Margrét Sigurðsson
Ágúst Simonsson
Sveinn Skaftfeld
Þóra Skaftfeld
Bjarni Skagfjörð
Thorleifur Skagfjörð
Capt. Jos. B. Skaptason
Mrs. J. Guðr. Skaptason
Friðbjörg Stefánsson
Steinunn Stefánsson
Helgi Sturlaugsson
Mrs. Jafeta Skagfjörð
Theódór Thordarson
Séra N. S. Thorláksson
Karl O. Thorlaksson
Valgeir J. Thorláksson
Bjarni Þorsteinsson
Björg Thorsteinsson
Helga G. Thorsteinsson
Þorst. S. Thorsteinsson
Mrs. Th. Thorsteinsson
Gunnar Thordarson
Einar Thorvaldsson
Emil Walterson
Hjörtur Walterson
Margrét J. G. Walterson
Sigríður Walterson
Sigurgeir Walterson

**Deildin Frón**
**Winnipeg, Man.**

Jón Ásgeirsson
Thorsteinn Ásgeirsson
Mrs. Jón Ásgeirsson
Jochum Ásgeirsson
Jón Austman
Stefán Abrahamsson
Helgi Árnason
Arinbjörn S. Bardal
J. J. Bíldfell
Mrs. J. J. Bíldfell
J. A. Bíldfell
Sigfús B. Benediktsson
Mrs. S. B. Benediktsson
Óskar A. Benediktsson
G. M. Bjarnason
Ólafur Bjarnason
Kjartan Bjarnason
Mrs. Oddrún Bjarnason
Sigurður Bjarnason
Skúli G. Bjarnason
Mrs. Vilborg Bjarnason
María Bjarnason
Ingibjörg Bjarnason
Jóhann Bjarnason
Bjarni A. Bjarnason
Guðmundur Bergmann
Gísli Bergvinsson
Skúli Benjamínsson
Mrs. Gróa Brynjólfsson
Gunnar Brynjólfsson
Andrés Björnsson
Davíð Björnsson
Sigurjón Björnsson
Mrs. Sigurjón Björnsson
Ólafur Breiðfjörð
Sigurður Baldvinsson
Stefán Baldvinsson
Margrét Byron
Ingibjörg Byron
Rannveig Blöndal
Friðmunda Christie
Víglundur Davíðsson
Júlíus Davíðsson
Mrs. Ragnh. Davíðsson
Páll S. Dalmann
Mrs. P. S. Dalmann
Árni Eggertsson
Ásbjörn Eggertsson
Stefán Einarsson
Jón Einarsson
Jóhanna Ellis
Einar Evford
Guðmundur Eiríksson
Mrs. G. Eiríksson
Inga Furney
Guðjón S. Friðriksson
Sigríður Friðsteinsson
Mrs. S. B. Gíslason
Hjálmar Gíslason
Mrs. Hallbera Gíslason
Ragnar Gíslason
Ingunn Gíslason
Jónbjörn Gíslason
Sveinbjörn Gíslason
Jón S. Gillis
Mrs. J. S. Gillis
Grímur R. Guðmundsson
Pétur Guðmundsson
Gísli Guðjónsson
Hannes Gunnlaugsson
Jón Gunnlaugsson
Mrs. Sesselja Gottskálks-
Son
Páll Hallsson
Björn Hallsson
Mrs. Ásta Hallsson
Miss Björg Hallsson
Elín Hall
G. H. Hjaltalín
María P. Hallgrímsdóttir
Thorleifur Hansson
Mrs. Jóhanna Hall
Brynjólfur Hólm
Jón Hafliðason
Jón Th. Hannesson
Mrs. Jón Th. Hannesson
Jón Hannesson
Mrs. Oddný Helgason
Mrs. A. Hope
Haraldur Hjálmsson
Eiríkur Ísfeld
G. J. Jóhannsson
Ásm. P. Jóhannsson
Mrs. Sigríður Jóhannsson
Jónas W. Jóhannsson
Kári Jóhannsson
Grettir Jóhannsson
Stefán Jóhannsson
Gísli G. Johnson
Ásmundur Johnson
Oddfríður Johnson
Bergþór E. Johnson
Mrs. B. E. Johnson
Þorl. Johnson
Björg E. Johnson
Bergþór K. Johnson
Einar P. Johnson
Gísli Jónsson
Mrs. Gísli Jónsson
Helgi Jónsson
Friðlundur Johnson
Magnús Johnson
Sigurjón Johnson
Sig. Júl. Jóhannesson
Mrs. Jónasína Jóhannes-
son
Jónas Jóhannesson
Mrs. Ásm. Jóhannesson
Mrs. H. Jóhannesson
Björg Jóhannessdóttir
Jónas Jónasson

Carl Jónasson
Valgerður Jónasson
Ingibjörg Jónasson
Jón Jónatansson
Steindór Jakobsson
Sigríður Jakobsson
Friðrik Kristjánsson
Lúðvik Kristjánsson
Mrs. L. Kristjánsson
Hlaðgerður Kristjánsson
Jakob Kirstjánsson
Mrs. J. Kristjánsson
Sr. Benjam. Kristjánsson
Mrs. B. Kristjánsson
Séra R. E. Kvaran
Mrs. R. E. Kvaran
Ragnheiður Kvaran
Guðmundur Levy
Hannes Líndal
Björn Líndal
Mrs. Svava Líndal
Guðm. Magnússon
Böðvar Magnússon
Þóra Rósa Magnússon
Steinunn Magnússon
Agnar R. Magnússon
Ari G. Magnússon
Mrs. Jón Magnússon
Mrs. Guðm. Magnússon
Magnús Magnússon
Filipía Magnússon
Ingibjörg Magnússon
Sr. Rúnólfur Marteinsson
Mrs. Ingunn Marteinsson
Jón Markússon
Mrs. Margrét Markússon
Jón Mýrmann
Loftur Mathews
Sigurður Oddleifsson
Mrs. S. Oddleifsson
Sigtryggur Ólafsson
Anna Ólafsson
Kristín Ólafsson
Benedikt Ólafsson
Mrs. Þ. Ólafsson
Hallfríður Ólafsson
Arnljótur Olson
Jack Oliver
Séra Philip Pétursson
Hannes Pétursson
Björg Pétursson
Séra R. Pétursson
Thorvaldur Pétursson
Margrét Pétursson
Ólafur Pétursson
Hólmfríður Pétursson
Pétur Jónas Pétursson
Hólmfríður Pétursson
Óskar Pétursson
Sveina Pétursson
Ólafur Pétursson
P. S. Pálsson
Mrs. Ólína Pálsson
Margrét Pálsson
Sigfús Pálsson
Mrs. Guðrún Pálsson
Stefanía Pálsson
Mrs. S. Pepps
Rannveig Stefánsson
Ragnar Stefánsson
Jónas Stefánsson
Stefán Stephenson
Rooney Stevens
Jack Snydal
Ragnhildur Snædal
Óvídá Sveinsson
Guðrún Sveinsdóttir
Ingibjörg Sveinsson
Friðrik Swanson
Mrs. Sigríður Swanson
Hreiðar Skaftfell
Magnús Skaftfell
Jóhann Sigmundsson
Mrs. Jóh. Sigmundsson
Sigurbjörn Sigurjónsson
Ingibjörg Sheffley
Sigurþór Sigurðsson
Randver Sigurðsson
Halldór Sigurðssson
Eyvindur Sigurðsson
Guðbjörg Sigurðsson
Guðrún Sigurðsson
María Sigurðsson
Eiríkur Sigurðsson
Mrs. Jódís Sigurðsson
Sigurlaug Sigurðsson
Guðmundur Sigurðsson
Bárður Sigurðsson
Mrs. Kristín Sigurðsson
Sveinn Sigurðsson
Pétur Sigurðsson
Þ. Þ. Þorsteinsson
Mrs. Þ. Þ. Þorsteinsson
Halldóra Thorsteinsson
Jónas Thorsteinsson
Örn Thorsteinsson
Guðrún Thorsteinsson
Ó. S. Thorgeirsson
Mrs. J. W. Thorgeirsson
Thorgils Thorgeirsson
Jónas Thordarson
Friðrik Thordarson
Þuríður Thordarson
Sófonías Thorkelsson
Mrs. Jóhanna Thorkelsson
Carl Thorlaksson
Mrs. Carl Thorlaksson
G. S. Thorvaldson
Eiríkur Thorbergson
Pétur J. Thomson
Joseph T. Thorson, K.C.
Jón Tómasson
Sigurður Vilhjálmsson

**Deildin Snæfell
Churchbridge, Sask.**

Guðm. Árnason
Eiríkur Bjarnason
M. Bjarnason
Konráð Eyjólfsson
Jón Freysteinsson
G. F. Gíslason
Jón Gíslason
E. Gunnarsson
Ólafur Gunnarsson
Björn Hinriksson
M. Hinriksson
Kristján Johnson
Árni E. Johnson
Halldór B. Jónsson
Helga S .Jónsson
Pálína M. Jónsson
Sigurður Jónsson
Kristján Kristjánsson
G. J. Markússon
K. Oddsson
Einar Sigurðsson
Þorbergur Þorbergsson

**Félagsmenn dánir
á árinu**

Séra Kjartan Helgason
Reykjavík, Ísland
Nikúlás Snædal
Lundar, Man.
Þorv. Þorvaldsson,
Riverton, Man.
Jón Eggertsson
Halldór Jóhannesson
Þórarinn Ólafsson
Sig. Sigurðsson
Winnipeg, Man.
Magnús Jónasson, Víðir
Þórður Axdal,
Wynyard, Sask.

# Fjárhagsskýrsla

Féhirðis, Fjármálaritara og Skjalavarðar
Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi.
yfir árið 1930

---

## REIKNINGUR FÉHIRÐIS

yfir tekjur og gjöld Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi
frá 22. febr. 1930 til 21. febr. 1931

TEKJUR:

| | | |
|---|---|---|
| 22. febr. 1930:— | | |
| Á Landsbanka Íslands | $ 58.34 | |
| Á Provincial Bank of Manitoba | 3,155.23 | |
| 21. febr. 1931:— | | |
| Frá fjármálaritara og skjalaverði | 533.80 | |
| Fyrir "Selskinnu"-sjóð | 10.50 | |
| Fyrir fyrirlestra Árna Pálssonar | 337.81 | |
| Fyrir fundi J. J. Bíldfells | 48.00 | |
| Frá Heimfararnefnd Þjóðræknisfélgsins | 180.65 | |
| Fyrir auglýsingar í Tímaritinu | 2,883.48 | |
| Sex ára vextir á Landsbanka Íslands | 110.56 | |
| Eins árs vextir á Provincial Bank | 110.55 | |
| | | $7,428.92 |

GJÖLD:

| | |
|---|---|
| 21. febr. 1931:— | |
| Styrkur til íslenzkukenslu | $ 250.00 |
| Ritstjóra og ritlaun | 358.56 |
| Prentun á 11. árg. Tímaritsins | 715.28 |
| Prentun á 12. árg. Tímaritsins | 540.00 |
| Umboðslaun á auglýsingum | 720.90 |
| Bókakaup | 50.00 |
| Bókaskápur | 50.00 |
| Eldsábyrgð á bókum | 15.00 |
| Ábyrgðargjöld á embættismönnum | 16.00 |
| Styrkur til Falcon Athletic Ass'n | 105.46 |
| Ferðakostnaður og fundahöld | 160.30 |
| Ársþing og aðrar auglýsingar | 58.80 |
| Prentun á lögum fél., jólaspjöld o. s. frv. | 136.00 |
| Ferðakostnaður yfirskoðunarmanns | 19.95 |
| Fundarsalsleiga fyrir ársþing | 40.00 |
| Gjöf til Árna Pálssonar | 400.00 |
| Fyrir verk unnið á ársþingi | 5.00 |
| Heiðursmedalíur | 10.50 |
| Löggilding, stimpill, fundarbók o. fl. | 235.50 |

| | | |
|---|---|---|
| Fjármálaritara og skjalavarðarlaun | 300.00 | |
| Kostnaður við útsendingu Tímaritsins | 77.95 | |
| Símskeyti, frímerki fyrir féhirði | 15.67 | |
| Skuggamyndir og leiga á vél | 46.95 | |
| Víxilgjöld á bankaávísunum | 1.20 | |
| Lán til Br. Þorlákssonar | 25.00 | |
| Á Landsbanka Íslands | 4.45 | |
| Á Provincial Bank of Manitoba | 3,070.45 | |
| | | $7,428.92 |

Árni Eggertsson.

21. febr. 1931. Yfirskoðað og rétt fundið.
B. B. Olson, B. Finnsson, yfirskoðunarmenn.

## SKÝRSLA SKJALAVARÐAR
.... fyrir árið 1930. .... ....

| | | |
|---|---|---|
| Seld 33 eintök af 11. árg. Tímaritsins | | $ 49.50 |
| Seld 4 eintök af 10. árg. | | 4.00 |
| Sölulaun 40% af $53.50 | $ 21.40 | |
| History of Iceland, 37 eint. á $2.00 | | 74.00 |
| Sölulaun skjalavarðar 50% af $74.00 | 37.00 | |
| 9. janúar, niðurborgun | 30.00 | |
| Burðargjald undir Tímaritið | 55.07 | |
| Burðargjald undir Tímaritið til Íslands | 16.32 | |
| Bankaávísun frá féhirði | | 71.39 |
| Umbúðapappír og garn | 6.56 | |
| Bankaávísan frá féhirði | | 6.56 |
| Borgað til féhirðis | 39.10 | |
| | $205.45 | $205.45 |

## SKÝRSLA FJÁRMÁLARITARA.

| | | |
|---|---|---|
| Borgað af meðlimum félagsins | $302.30 | |
| Borgað af deildum | 163.30 | |
| Afhent féhirði, Á. Eggertssyni | | $465.45 |
| Víxilgjald á bankaávísuun | | .15 |
| Meðtekið frá meðl. deildarinnar "Frón" | 4.00 | |
| Afhent féhirði deildarinnar "Frón" | | 4.00 |
| | $469.60 | 469.60 |

## YFIRLIT YFIR SJÓÐI FÉLAGSINS

| | | | |
|---|---|---|---|
| 22. febr. 1930 | Byggingarsjóður | $ 26.15 | |
| 21. febr. 1931 | Vextir | .91 | |
| | | | $ 27.06 |
| 22. febr. 1930 | Ingólfssjóður | 726.31 | |
| 21. febr. 1931 | Vextir | 25.42 | |
| | | | 751.73 |
| 22. febr. 1930 | Selkinnusjóður | 103.01 | |
| 26. febr. 1930 | Borgað á ársþingi | 10.50 | |
| 21. febr. 1931 | Vextir | 3.97 | |
| | | | 117.48 |
| 21. fsbr. 1931 | Innieign félagsins á bönkum | | $2178.63 |
| | Alls í sjóði | | $3074.90 |

## SKÝRSLA YFIR EIGNIR FÉLAGSINS

| | | |
|---|---|---|
| Tímarit I.—X, 3297 eintök, á 50c hvert | $1,648.50 | |
| 40% frá | 659.40 | |
| | | $ 989.10 |
| XI., 566 eintök á 75c hvert | 424.50 | |
| 40% frá | 169.80 | |
| | | 254.70 |
| Svipleiftur samtíðarmanna, 139 eintök á $1.50 hvert | 208.50 | |
| 25% frá | 52.12 | |
| | | 156.38 |
| Bókasafn, skápur, ritvél o. fl. | | 335.50 |
| Ársæll Árnason: skuld | | 373.37 |
| Selskinnusjóður | 117.48 | |
| Byggingarsjóður | 27.06 | |
| Ingólfssjóður | 751.73 | |
| Félagssjóður | 2,178.63 | |
| Í sjóðum félagsins | | 3,074.90 |
| Alls | | $5,183.45 |

21. febr. 1931. Yfirskoðað og rétt fundið.

B. B. Olson, B. Finnsson, yfirskoðunarmenn.

# Auglýsingaskrá Tímaritsins

# *Welcome - -*
# *Visitors to Winnipeg*




May we take this opportunity to express our appreciation of the splendid part our citizens from the noble little isle of Iceland have played in the development of the West. Of high ideals, industrious and persevering, firm in resolution and in courage, this great race has contributed to Canadian life gifts of inestimable benefit to the upbuilding of our glorious country—gifts unsurpassed by any other nation represented in the Dominion.

We, as a college, have also endeavored to contribute at all times the finest and best in training and in precept to our young people in our happy task of preparing them to become useful and worthy citizens. A business training is the most rapid and certain means to self-support and satisfying accomplishment.

Business firms have proved the ability of our graduates in Bookkeeping, Stenography, Clerkship, Accountancy. They know that they will receive highly skilled service from any graduate we recommend, That is the reputation the Dominion Business College has. Ask any business man you know.

**DOMINION BUSINESS COLLEGE**

**The Mall — Winnipeg**

**Branches in Elmwood, St. James, St. John's**